9. En ekki
eiga þóttumk
sakar afl
við súðsbana,
þvít alþjóð
fyr augum verðr
gamals þegns
gengileysi.

10. Mik hefr marr
miklu ræntan
(grimt es fall
frænda at telja),
síðans mínn
á munvega
ættar skjǫldr
af lífi hvarf.

11. Veitk þat sjálfr,
í syni mínum
vasa ills þegns
efni vaxit,
ef randviðr
rǫskvask næði,
unz her-Gauts
hendr of tœki.

12. Æ lét flest,
þaz faðir mælti,
þótt ǫll þjóð
annat segði;
mér upp helt
of herbergi,
ok mítt afl
mest of studdi.

13. Opt kømr mér
málu Þjaza
í byrvind
brœðraleysi.
Hyggjumk umb,
es Hildr þróask,
nýsumk hins
ok hygg at því;

14. hvar mér hugðr
á hlið standi
annarr þegn
við óðræði;
þarfk þess opt
við þrágjǫrnum.
Verð varfleygr,
es vinir þverra.

15. Mjǫk 's torfyndr,
sás trúa knegum
of alþjóð
elgjar gálga,
þvít niflgóðr
niðja steypir
bróður hrør
við baugum selr.

16. Þat 's ok mælt,
at engi getr
sunar iðgjǫld,
nema sjálfr ali,
né þann nið,
es ǫðrum sé
borinn maðr
í bróður stað.

17. Erumka þekkt
þjóða sinni,
þótt sérhverr
sáttum haldi.

Burr 's býskips
í bœ kominn,
kvánar sun,
kynnis leita.

18. En mér fens
í fǫstum þokk
hrosta vǫrðr
á hendi stendr;
mákak upp
óró grímu
rýnis reið
réttri halda;

19. sízt sun minn
sóttar brimi
heiptugligr
ór heimi nam,
þanns ek veit
at varnaði
vamma varr
við námæli.

20. Þat mank enn,
es upp of hóf
í goðheim
Gauta spjalli
ættar ask,
þanns óx af mér,
ok kynvið
kvánar minnar.

21. Áttak gótt
við geirdróttin;
gørðumk tryggr
at trúa hánum,
áðr vinað
vagna runni,
sigrhǫfundr,
of sleit við mik.

22. Blótkak því
bróður Vilis,
goðjaðar,
at ek gjarn sjá;
þó 'fr Mímsvinr
mér of fengnar
bǫlva bœtr,
es et betra telk.

23. Gafumk íþrótt
úlfs of bági
vígi vanr
vammi firða,
ok þat geð,
es gørðak mér
vísa fjandr
af vélǫndum.

24. Erumk torvelt;
Tveggja bága
njǫrvanipt
á nesi stendr.
Skalk þó glaðr
góðum vilja
ok óhryggr
Heljar bíða.

---

# Sigurdardrápa.

(Brot).

Kormakr Ǫgmundarson orti.

1. (Heyri sunr á) Sýrar
(sannreynis) fentanna
(ǫrr) greppa lætk uppi
jast-Rín (Haralds) mína.

2. Meiđr es mǫrgum œđri
morđteins í dyn fleina
(hjǫrr fær) hildibǫrrum
(hjarl Sigurđi jarli).

3. Hróđr gørik of mǫg mæran
meir Hákonar fleira;
haptsœnis geld hánum
heiđ. Sitr Þórr í reiđu.

4. Svall, þás gekk međ gjallan
Gauts eld hinn, 's styr beldi,
glađfœđandi Gríđar,
gunnr. Kǫmsk Urđr at
brunni.

5. Hafit mađr ask né eski-
afspring međ sér þingat
fésæranda at fœra
-faz. Véltu gođ Þjaza.

6. Hver muni vés viđ valdi
vægja kind of bægjask,
þvít fúr-Rǫgnir fagnar
fens? Vá gramr til menja.

# Vellekla.

(Brot).

Einarr Skálaglam orti.

1. Auk oddneytir úti
eiđvandr flota breiđan
(glađr í Gǫndlar veđrum
gramr svafđi bil) hafđi;
ok rauđmána reynir
rógsegl Heđins bóga
upp hóf jǫfra kappi
etjulund at setja.

2. Vasat ofbyrjar ǫrva
oddavífs né drífu
sverđa sverrifjarđar
svanglýjađi at frýja;
brak-Rǫgnir skók bogna
(barg óþyrmir varga)
hagl ór Hlakkar seglum
(hjǫrs rakkliga fjǫrvi).

3. Margt varđ él áđr Ála
austrland at mun banda
randarlauks af ríki
rœkilundr of tœki;
berk fyr hefnd, þás hrafna,
hljóms lof, (toginn skjóma
þat nam) vǫrđr (at vinna)
vann síns fǫđur hranna.

4. Rigndi hjǫrs á hersa
hríðremmis fjǫr víða
(þrimlundr of jók Þundi
þegns gnótt) meïlregni;
ok hjald-Viðurr hǫlða
haffaxa lét vaxa
laufa veðr at lífum
lífkǫld Hávars drífu.

5. Hjálmfaldinn vann hilmir
harðr (Lopts vinar) barða
(því kom vǫxtr í Vínu
vínheims) fiandr sína;
at forsnjallir fellu
fúrs í Þróttar skúrum,
þat fær þjóðar snytri,
þrír jarlssynir, tírar.

6. Hvarfat aptr áðr erfðan
óðstafr fǫður hafði
(herforðaðr réð Hǫrða)
hjǫrveðrs (konungs fjǫrvi);
varðat Freyr, sás fœri
fólkskíðs, né mun síðan,
(því bregðr ǫld við aðra)
jarls ríki fram slíku.

———

7. Sjau fylkjum kom silkis
(snúnaðr vas þat) brúna
geymir grundar síma
grandvarr und sik (landi).

8. Ǫll lét senn enn svinni
sǫnn Einriða mǫnnum
herjum kunnr of herjuð
hofs land ok vé banda.
At veg jǫtna vitni
valfalls of sæ allan
(þeim stýra goð) geira
garðs Hlórriði farði.

9. Auk herþarfir hverfa
Hlakkar móts til blóta;
rauðbríkar fremsk rœkir
ríkr ásmagni slíku.
Nú grœr jǫrð sem áðan;
aptr geirbrúar hapta
auðrýrir lætr áru
óhryggva vé byggva.

10. Nú liggr alt und jarli
(ímunborðs) fyr norðan
(veðrgœðis stendr víða)
Vík (Hákonar ríki);
engi varð á jǫrðu
ættum góðr nema Fróði
gæti-Njǫrðr, sás gørði,
geirbríkar, frið slíkan.

11. Enn reið ǫðru sinni
jarl borðmǫrum norðan;
sóknherðir lét sverða
sótt Ragnfreði at móti.
Hóf und hyrjar kneyfi
(hraut unda fjǫld) Þundar
[þat sleit víg á vági]
vandar dýr at landi.

12. Né fjǫlsnerrinn fyrri
fémildr konungr vildi
(vægðit jarl fyr jǫfri
Yggs niðr) friðar biðja;
búinn lézk valdr, ef vildi
valmey konungr heyja,
hǫlða morðs at halda
(herr fell of gram) velli.

13. Hitt vas meir at Mœra
morđfíkinn lét norđan
fólkverjandi fyrđa
fǫr til Sogns of gǫrva.
Ýtti Freyr af fjórum
fólklandum (sá branda
Ullr stođ af því) allri
yrþjóđ Heđins byrjar.

14. Ok til móts á Meita
mjúkhurđum fram þurđu
međ spǫrgœli svarfa
sjau landrekar randa.
Glumđi allr, þás Ullar
eggþings Heđins veggjar,
(gnótt flaut nás fyr nesjum)
Nóregr, saman fóru.

15. Varđ fyr Vinda myrđi,
víđfrægt en, gramr, síđan
gørđisk mest at morđi
mannfall, viđ styr annan.
Hlym-Narfi bađ hverfa
hlífar flagđs, ok lagđi
-Jálks viđ ǫndurt fylki
andur- þǫrf, at landi.

16. Strǫng varđ gunnr áđr gunnar
gammi nás und hramma
þrøngvimeiđr of þryngvi
þrimr hundruđum lunda.
Knátti hafs at hǫfđum
(hagnađr vas þat) bragna
fólkeflandi fylkir
fangsæll þađan ganga.

---

17. Hitt vas auk, at eykir
aurborđs á vit norđan
und sigrrunni svinnum
sunnr Danmarkar runnu,
auk hólmfjǫturs hjálmi
Hǫrđa valdr of faldinn
Dofra Danskra jǫfra
dróttinn fund of sótti.

18. Ok viđ *frost at freista
fémildr konungr vildi
myrk- hlóđynjar -markar
morđ* álfs þess 's kom norđan
þás valserkja virki
veđrhirđir bađ stirđan
fyr hlym-Njǫrđum hurđa
Hagbarđa gram varđa.

19. Vasat í gegn, þótt gørđi
garđ-Rǫgnir styr harđan,
gengiligt at ganga,
geirrásar, her þeira,
þás međ fylki Frísa
fór gunn-Viđurr sunnan
(kvaddi vígs) ok Vinda
(vágs blakkriđi) Frakka.

20. Þrymr varđ logs es lǫgđu
leikmiđjungar Þriđja
(arngreddir varđ) odda
(andvígr) saman randir.
Sundfaxa kom Sǫxum
sœki-Þróttr á flótta;
þar 's svát gramr međ gumnur
garđ yrþjóđum varđi.

---

21. Flótta gekk til fréttar
felli-Njǫrđr á velli,
draugr gat dólga Ságu
dagráđ Heđins váđa;

auk haldboði hildar
hrægamma sá ramma;
Týr vildi sá týna
teinhlautar fjǫr Gauta.

22. Háði jarl, þars áðan
engi mannr und ranni,
hyrjar þing, at herja,
hjǫrlautar, kom Sǫrla.
Bara maðr lyngs enn lengra
loptvarðaðar barða
(alt vann gramr of gengit
Gautland) frá sæ randir.

23. Valfǫllum hlóð vǫllu
(varð ragna konr gagni)
hríðar áss (at hrósa)
[hlaut Óðinn val] Fróða.
Hver sé if, nema jǫfra
ættrýri goð stýra?
Rammaukin kveðk ríki
ragn Hákonar magna.

- - - - - -

24. Hvar viti ǫld und einum
jarðbyggvi svá liggja
(þat skyli herr of hugsa)
hjarl ok sextán jarla?
Þess ríðr fúrs með fjórum
fólkleikr Heðins reikar
logskundaðar lindar
lofkendr himins endum.

---

# Húsdrápa.

(Brot).

Úlfr Uggason orti.

1. Hoddmildum ték hildar
hugreifum Óleifi
(hann vilk) at gjǫf Grímnis
geðjarðar lá (kveðja).

- - - - - -

2. Ráðgegninn bregðr ragna
rein- at Singasteini
frægr við firna slœgjan
Fárbauta mǫg -vári;
móðǫflugr ræðr mœðra
mǫgr hafnýra fǫgru
(kynnik) áðr ok einnar
átta (mærðar þáttum).

---

3. Innmáni skein ennis
andóttr vinar banda;
áss skaut œgigeislum
orðsæll á men storðar;
en stirðþinull starði
storðar leggs fyr borði
fróns á fólka reyni
fránleitr ok blés eitri.

4. Fullǫflugr lét fellir
fjall-Gauts hnefa skjalla
(ramt mein vas þat) reyni
reyrar leggs við eyra;
Viðgymnir laust Vimrar
vaðs af fránum naðri

hlusta grunn við hrǫnnum.
Hlaut innan svá minnum.

---

5. Ríðr á bǫrg til borgar
bǫðfróðr sunar Óðins
Freyr ok fólkum stýrir
fyrstr enum golli byrsta.

6. Kostigr ríðr at kesti
kynfróðs, þeims goð hlóðu,
hrafnfreistaðar hesti
Heimdallr at mǫg fallinn.

7. Ríðr at vilgi víðu
víðfrægr, en mér líða,
Hropta-Týr, of hvapta
hróðrmál, sunar báli.
Þar sigrrunni svinnum
sylgs valkyrjur fylgja
heilags tafns ok hrafna.
Hlaut innan svá minnum.

8. Fullǫflug lét fjalla
fram haf-Sleipni þramma
Hildr, en Hropts of gilðar
hjálmelda mar feldu.

---

9. Þar kømr á, en æri
endr bark mærð af hendi,
(ofrak svá) til sævar,
sverðregns (lofi þegna).

---

# Þórsdrápa.

(Brot).

Eilífr Guðrúnarson orti.

1. Flugstalla réð felli
fjǫrnets goða at hvetja
(drjúgr vas Loptr at ljúga)
lǫgseims faðir heiman;
geðreynir kvað grœnar
Gauts herþrumu brautir
vilgi tryggr til veggjar
viggs Geirrǫðar liggja.

2. Geðstrangrar lét gǫngu
Gammleið Þóarr skammu
(fýstusk þeir at þrýsta
þorns niðjum) sik biðja;
þás gjarðvenjuðr gørðisk,
Gandvíkr skǫtum ríkri,
endr til ýmsa kindar,
Iðja setrs, frá Þriðja.

3. Gǫrr varð í fǫr fyrri
farmr meinsvarans arma,
sóknar, hapts, með svipti
sagna, galdrs, en Ragnir.
Þylk granstrauma Grímnis;
gall- manntælir halla
-opnis ilja gaupnum
Endils á mó spendi.

4. Ok -gangs vanir gengu
gunn- vargs (himintargu)
fríðar (vers til fljóða

frumseyris kom dreyra),
þás bǫlkveitir brjóta
bragđmildr Loka vildi
bræđivændr á brúđi
bág sefgrímnis mága.

5. Ok vegþverrir vǫrru
vann fetrunnar Nannu
hjalts af hagli oltnar
hlaupár of ver gaupu.
Mjǫk leiđ ór stađ stokkvir,
stikleiđar veg breiđan,
urđar þrjóts, þars eitri
œstar þjóđár fnœstu.

6. Þars í -mǫrk fyr (markar)
málhvettan byr- settu
(né hvelvǫlur hálar)
hóf skotnađra (sófu),
knátti hreggi hǫggvin
hlymþél viđ mǫl glymja,
en fellihryn fjalla
Feđju þaut međ steđja.

7. Harđvaxnar sér herđir
hallands of sér falla
(gatat) mar njótr (enn neytri)
Njarđ- (ráđ fyr sér) -gjarđar.
Þverrir lætr, nema þyrri,
þorns barna sér, marnar
snæriblóđ, til svíra
salþaks megin vaxa.

8. Óđu fast (en) fríđar
(flaut) eiđsvara Gauta
setrs, víkingar snotrir,
(svarđ-) runnar (-fen) gunnar!
Þurđi hrǫnn at herđi
hauđrs runn, (kykva nauđar)
jarđar skafls af afli
(áss!) hretviđri blásin.

9. Unz međ ýta sinni
(aflraun vas þat) skaunar
á seil himinsjóla
sjálflopta kom Þjálfi.
Háđu stáli stríđan
straum hrekk-Mímis ekkjur;
stop-hnísu fór steypir
stríđlundr međ vǫl Gríđar.

10. Né djúp- akarn drápu
dólgs vamms firum glamma
stríđkveđjǫndum stǫđvar
stall viđ -rastar falli.
Ógndjarfan hlaut arfi
eiđ- Jarđar -ljúg meiđa.
Skalfa Þórs né Þjálfa
þróttarsteinn viđ ótta.

11. Ok síđuna síđan
sverđs, liđhatar, gerđu,
hlífar, borđs viđ Hǫrđa
harđ-Gleipnis dyn barđi;
áđr hylhríđar hæđi
hrjóđendr fjǫru þjóđar
viđ skyld-Breta skytju,
skáleik! Heđins reikar.

12. Dreif međ dróttar kneyfi
(dólg- Svíþjóđar kólgu
sótti -ferđ á flótta)
flesdrótt Ívu nesja.
Þás funhristis fasta,
flóđrifs Danir, stóđu,
knáttu Jólnis, ættir,
útvés fyrir lúta.

13. Þars íþróttar hersa
þornranns hugum bornir,
hlymr varð hellis Kumra,
hringbálkar fram gingu.
Laust of fœrðr í fasta
(friðsein vas þar) hreini
gnípu hlǫðr á greypum
grán hǫtt Fenris kvánar.

14. Auk hám loga himni
hall- fylvingum -vallar
tráðusk þar við troði
tungls brá solar þungu.
Húfstjóri braut hváru
hreggs vafreyða tveggja
hlátr-elliða hellis
hundfornan kjǫl sprundi.

15. Fátíða nam frœði
fjarðeplis kván jarðar;
mœrar leggs né mǫgðu
menn ǫlteiti kenna.
Álmtaugar, laust, Ægir!
angrþjóf sega tangu
Óðins afli soðnum
áttruðr í gin Suðra.

16. Svát (hraðskyndir) handa
hrapmunnum svalg (gunnar!)
lyptisylg á lopti
langvinr síu Þrangvar;
þás ørþrásis eisu
áss hrímnis fló drósar
til þrámóðnis Þrúðar
þjóst- af Greipar -brjósti.

17. Bifðisk hǫll, þás hǫfði
heiðrekr of kom breiðu
und fletbjarnar fornan
fótlegg, þurnis, veggjar.
Ítr gulli laust Ullar
jótrs vegtaugar þrjóti
meina niðr í miðjan
mest bifgyrðil nestu.

18. Glaums niðjum fór gǫrva
gramr með dreyrgum hamri,
of salvanið- Synjar
sigr hlaut arin- -brauti.
Kom at tvíviðar Tývi
tollr, -karms sá es harmi,
brautar liðs, of beitti
bekk- falljǫtuns rekka.

19. Herblótinn vá hneitir
hógbrotningi skógar
undirjálfrs at álfi
Álfheims bliku kálfa;
né liðfǫstum Lista
látr- valrugar máttu
aldrminkanda -eldar
Ellu steins of bella.

---

20. Vreiðr stóð Vrǫsku bróðir,
vá gagn faðir Magna.
Skalfa Þórs né Þjálfa
þróttarsteinn við ótta.

---

21. Þrøngvir gein við þungum
þangs rauðbita tangar
kveldrunninna kvenna
kunleggs alinmunni.

---

# Hákonardrápa.

(Brot).

Hallfreðr Vandræðaskáld orti.

1. Askþollum stendr Ullar
austr at miklu trausti
rœkilundr enn ríki
randfárs brumaðr hári.

2. Grams rúni lætr glymja
gunnríkr, hinn 's hvǫt líkar,
Hǫgna hamri slegnar
heiptbráðr umb sik váðir.

3. Sannyrðum spenr sverða
snarr þiggjandi viggjar
barrhaddaða byrjar
biðkván und sik Þriðja.

4. Breiðleita gat brúði
Báleygs at sér teygja
stefnir stǫðvar hrafna
stála ríkismálum.

5. Ráð lukusk, at sá síðan
snjallráðr konungs spjalli
átti eingadóttur
Ónars viði gróna.

6. Hykk fleygjanda frakkna
(ferr jǫrð und menþverri)
ítra eina at láta
Auðs systur mjǫk trauðan.

7. Ok geirrótu gǫtvar
gagls við strengjar hagli
hungreyðǫndum hanga
hlýðut járni sýðar.

8. Ólítit brestr úti
unndýrs frǫmum runnum
hart á Hamðis skyrtum
hryngráp Egils vápna.
Þaðan verða fǫt fyrða,
fregnk gǫrla þat, Sǫrla
rjóðask bjǫrt í blóði.
Benfúr meïlskúrum.

---

# Óláfsdrápa.

(Brot).

Hallfreðr Vandræðaskáld orti.

1. Tólf vas elds at aldri
ýsetrs hati vetra,
hraustr þás herskip glæsti
Hǫrðavinr ór Gǫrðum;
hlóðu Hamðis klæðum
hjǫrva gnýs ok skýjum
hilmis menn sem hjálmum
hlýrvigg, en mól stýri.

2. Hilmir lét at Hólmi
hræskóđ rođin blóđi
(hvat of dylđi þess hǫlđar?)
hǫrđ ok austr í Gǫrđum.

3. Svá frák hitt at háva
hǫrgbrjótr í stađ mǫrgum
(opt kom hrafn at heipta)
hlóđ valkǫstu (blóđi).

4. Endr lét Jamta kindir
allvaldr í styr falla
(vanđisk hann) ok Vinda
végrimmr (á þat snimma).
Hættr vas hersa dróttinn
hjǫrdjarfr Gota fjǫrvi;
gollskerđi frák gørđu
geirþey á Skáneyju.

5. Bǫđserkjar hjó birki
barklaust í Danmarku
hleypimeiđr fyr Heiđa-
hlunnviggja -bœ sunnan.

6. Tíđhǫggvit lét tyggi
Tryggva sunr fyr styggvan
leiknar hest á lesti
ljótvaxinn hræ Saxa;
vinhróđigr gaf víđa
vísi margra Frísa
blǫkku brúnt at drekka
blóđ kveldriđu stóđi.

7. Rógs brá rekka lægir
ríkr valkera líki;
herstefnir lét hrǫfnum
hold Flæmingja goldit.

8. Gørđisk ungr viđ Engla
óvægr konungr bægja;
naddskúrar réđ nœrir
Norđimbra því morđi.
Eyddi úlfa greddir
ógnbliđr Skotum víđa
(gørđi seims) međ sverđi
(sverđleik í Mǫn skerđir).

9. Ýdrauga lét Ægir
eyverskan her deyja
(Týr vas tjǫrva dýrra
tírar gjarn) ok Íra.
Barđi Brezkrar jarđar
byggvendr ok hjó tyggi
(gráđr þvarr geira hríđar
gjóđi) Kumbrskar þjóđir.

---

# Erfidrápa Óláfs Tryggvasonar.

(Brot).

Hallfređr Vandræđaskáld orti.

1. Flugþverrir nam fyrri
frægr aldrigi vægja,
heldr kvađ hauka skyldir
hugrekki sér þekkja.

2. Geta skal máls, es mæla
menn at vápna sennu
dólga fangs viđ drengi
dáđǫflgan gram kváđu.

Hratt tortrygðar hyggju
hnekkir sínna rekka
(þess lifa þjóðar sessa
þróttar orð) á flótta.

3. Hykk víst til mjǫk mistu
(mǫrg kom drótt á flótta)
gram, ðanns gunni framði,
gengis Þrœnzkra drengja.
Nœfr vá einn við jǫfra
allvaldr tváa snjalla
(frægr 's til slíks at segja
siðr) ok jarl enn þriðja.

4. Hept vas lítt (á lopti
liðu ǫrvar fram gǫrva)
brodda flaug, áðr bauga
brjótendr skyti spjótum.
Orð vas hitt at harðast
hvarkunnr fyr lǫg sunnan
mest í málma gnaustan
minn dróttinn fram sótti.

5. Sótti herr, þars hætti,
hundmargr drasil sunda,
en hjálmsprotum hilmir
harðfengr Dǫnum varði;
fellu þar með þolli
þeim skævaðar geima
(mein hlautk af því) mínir
meir hollvinir fleiri.

6. Herskerðir klauf harðan
(hann gekk reiðr of skeiðar)
svarðar stofn með sverði
sunnr eldviðum kunnum.
Kunni gramr at gunni
(gunnþings á hjǫr þunnum
margr lá heggr of hǫggvinn)
hold barkaðra sarka.

7. Varð of Vinda myrði
vígskýs (enn þat lýsik)
rammr und randa himni
rymr [knáttu spjǫr glymja].
Hirðir stóðsk við harðan
hnitvegg með fjǫld seggja
víðis veltireiðar
varghollr þrimu marga.

8. Upp sǫgðu lǫg (lagðisk
líf skjótt firum) hlífa
gnóg til gumna feigðar
gálkn við randar bálku.

9. Leitt hykk Leifa brautar
lognárungum váru
geirs við gumna stjóra
geigurþing at eiga,
þás fákhlaðendr frœknir
farligs at vin jarla
húfs með hamri þœfðar
hringskyrtur fram gingu.

10. Sukku niðr af Naðri
naddfárs í bǫð sárir
baugs (gørðut við vægjask)
verkendr meginserkjar;
vanr mun Ormr, þótt Ormi
alldýrr konungr stýri,
hvars skríðr með lið lyða,
lengi slíkra drengja.

11. Eigi látask ýtar
enn, þeirs víða nenna,
fremra mann of finna
fólkreifum Óleifi.

12. Firđisk vætr, sás varđi
viđ lǫnd, Breta stríđir
bleyđifirđr viđ bráđan
bekkdóm Heđins rekka.
Hann lét of sǫk sanna
(sverđjálmr óx þar) verđa
[skilit frák] (fyr skylja)
skóđ mær rođin blóđi.

13. Hverr vas hræddr viđ ǫrvan
hugdyggvan son Tryggva
(óđusk málmþings meiđar)
mađr und sólar jađri.

14. Mundit lung et langa
læsíks und gram ríkjum
(blóđ kom á þrǫm þíđan)
þjóđ varliga hrjóđa,
međan ítrs vinir áttu
innan borđs at morđi
(sú gørđisk vel) varđa
(verđung) jǫfurs sverđum.

15. Harđgervum lét hjǫrvi
hólms verđa Týr sverđa
vind á víđu sundi
vígþey Heđins meyjar.
Áđr en Ormi næđi
Eiríkr eđr hlut meira,
mǫrg óđ bitr í blóđi
benkneif fyr Óleifi.

16. Ítrfermđum réđ Ormi
orđsæll jǫfurr norđan
(snǫrp varđ at þat sverđa
snót) Eiríki á móti,
en húfjǫfnum hefnir
hlýrs þeim gota stýrđi
(áđr óx umb gram góđan
gunnr) Hákonar sunnan.

17. Gótt es gǫrva at frétta
(gunnr óx fyr haf sunnan,
sverđ bitu feigra firđa
fjǫrrǫnn) at því mǫnnum,
hvern rakkligast rekka
randláđs viđir kváđu
(Surts ættar vinnk sléttan
sylg) Óláfi fylgja.

18. Ógrœđir sá auđa
armgrjóts Trǫnu fljóta
(hann rauđ geir at gunni
glađr) ok báđa Nađra;
áđr hjaldrþorinn heldi
hugframr í bǫđ ramri
snotr af snœris vitni
sunds Þorketill undan.

19. Veitkat hitt hvárt Heita
hungrdeyfi skalk leyfa
dynsæđinga dauđan
dýrbliks eđr þó kvikvan;
alls sannliga segja
(sárr mun gramr at hváru;
hætt 's til hans at frétta)
hvárttveggja mér seggir.

20. Sagđr vas mér, en meira
munuma stríđ of bíđa,
lýđum firđr ok láđi
landvǫrđr fyr sæ handan;
væri oss, þótt ærir
elds þeim svikum beldi,
heila líkn, ef, hauka
háklifs, jǫfurr lifđi.

21. Norđr eru ǫll of orđin
auđ lǫnd at gram dauđan.
Allr glepsk friđr af falli
flugstyggs sunar Tryggva.

22. Samr vas árr of ævi
oddbragđs hinn 's þat sagđi,
at lofđa gramr lifđi,
læstyggs sunar Tryggva.
Vesa kveđr ǫld ór éli
Áláf kominn stála;
menn geta máli sǫnnu
mjǫk (es verr en svá) ferri.

23. Mundut þess, alls þegnar
þróttharđan gram sóttu,
frák, međ liđi lýđa,
landher đar skǫp verđa,
at mundjǫkuls myndi
margdýrr koma stýrir
(geta þykkjat mér gotnar
glíkligs) ór styr slíkum.

24. Enn segir auđar kenni
austr í málma gnaustan
seggr frá sárum tyggja
sumr eđr brott of komnum.
Nú 's sannfregit sunnan
siklings ór styr miklum
(kannkak margt viđ manna)
morđ (veifanar orđi).

25. Norđmanna hykk nenninn
(nú 's þengill framgenginn,
dýrr hné dróttar stjóri)
dróttin und lok sóttan.
Grams dauđi brá gleđi
góđs ófárar þjóđar.
Allr glepsk friđr af falli
flugstyggs sunar Tryggva.

26. Ilt vas, þaz úlfs sultar,
opt, þverri stóđk ferri,
mest þars málmar gnustu,
mein. þótt smátt sé und einum.
Skiliđr emk viđ skylja;
skálmǫld hefr því valdit;
vættik virđa dróttins;
vil 's mest ok dul flestum.

27. Hefk þanns hverjum jǫfri
heiptfíknum varđ ríkri
und niđbyrđi Norđra
norđr gođfǫđur orđinn;
bíđa munk þess, 's breiđan
barđmána vann skarđan,
margaukanda mækis
mót aldrigi bóta.

28. Fyrr mun heimr ok himnar,
hugreifum Óleifi,
(hann vas menskra manna
mest gótt) í tvau bresta,
áđr en glíkr at góđu
gœđingr muni fœđask.
Kœns hafi Kristr enn hreini
konungs ǫnd ofar lǫndum.

# Sigtryggsdrápa Silkiskeggs.

(Brot).

Gunnlaugr Ormstunga Illugason orti.

1. Elr sváru skæ
Sigtryggr við hræ.
. . . . . .

2. Kannk máls of skil,
hvern mæra vil
konungmanna kon:
hann 's Kvarans son.

3. Muna gramr við mik
(venr gjǫfli sik,
þess m'n grepp vara)
gollhring spara.
Segi hildingr mér,
ef heyrði sér
dýrligra brag;
þat 's drápulag.

---

# Víkingarvísur.

Sighvatr Þórðarson orti.

1. Langt bar út enn unga
jǫfra kund at sundi
(þjóð ugði sér síðan)
sæmeiðr (konungs reiði).
(Kannk til margs) en manna
(minni) fyrsta sinni
hann rauð œstr fyr austan
úlfs fót við sker Sóta.

2. Þat vas enn at ǫnnur
Áláfr, né svik fálusk,
odda þing í eyddri
Eysýslu gekk heyja.
Sitt áttu fjǫr fótum
(fár beið ór stað sára)
en, þeirs undan runnu,
allvaldr! búendr gjalda.

3. Hríð varð stáls í stríðri
strǫng Herdala gǫngu
Finnlendinga at fundi
fylkis niðs en þriðja.
En austr við lá leysti
leið víkinga skeiðar.
Balagarðs at borði
brimskíðum lá síða.

4. Enn kváðu gram Gunnar
galdrs upphǫfum valda
(dýrð frák þeims vel varðisk
vinnask) fjórða sinni;
þás ólítill úti
jǫfra liðs á miðli
friðr gekk sundr í sliðri
Suðrvík Dǫnum kuðri.

5. Víg vant, hlenna hneigir!
hjálmum grimt et fimta;
þolđu hlýr fyr hári
hríđ Kinnlima síđu,
þás viđ rausn at ræsis
reiđ herr ofan skeiđum,
en í gegn at gunni
gekk hilmis liđ rekkum.

6. Rétt 's atsókn en sétta
(snarr þengill bauđ Englum
at) þars Óláfr sótti
(Yggs) Lundúna bryggjur.
Sverđ bitu Vǫlsk, en vǫrđu
víkingar þar diki;
átti sumt í sléttu
Suđvirki liđ búđir.

7. Enn lét sjaunda sinni
sverđþing háit verđa
endr á Úlfkels landi
Áláfr, sem ferk máli.
Stóđ Hringmaraheiđi
(herfall vas þar) alla
Ellu kind, en olli
arfvǫrđr Haralds starfi.

8. Veitk at víga mœtir
Vindum háttr enn átta
(styrkr gekk vǫrđr at virki
verđungar) styr gerđi.
Sínn máttut bœ banna
borg Kantara (sorgar
mart fekk prúđum Pǫrtum)
portgreifar Óleifi.

9. Vann ungr konungr Englum
ótrauđr skarar rauđar;
endr kom brúnt á branda
blóđ í Nýjamóđu.
Nú hef orrostur, austan
ógnvaldr! níu talđar;
herr fell Danskr þars dǫrrum
dreif mest at Óleifi.

10. Tegr vas fullr í fǫgrum
fólkveggs drífar hreggi
(helt sem hilmir mælti)
Hringsfirđi (liđ þingat).
Ból lét hann á Hœli
hátt, 's víkingar áttu,
(þeir báđut sér síđan
slíks skotnađar) brotna.

11. Óláfr! vant þars jǫfrar
ellifta styr fellu;
ungr komt af því þingi
þollr í Gríslupollum.
Þat frák víg at vítti
Vilhjálms fyr bœ hjálma
(tala minst es þat telja)
tryggs jarls háit snarla.

12. Tǫnn rauđ tólfta sinni
tírfylgjandi ylgjar.
Varđ í Fetlafirđi
fjǫrbann lagit mannum.

13. Þrettánda vann Þrœnda
(þat v's flótta bǫl) dróttinn
snjallr í Seljupollum
sunnarla styr kunnan.
Upp lét gramr í gamla
Gunnvaldsborg of morgin
(Geirfiđr hét sá) gǫrva
gengit (jarl of fenginn).

14. Málms vann, Mœra hilmir,
munnrjóðr es kom sunnan
gang, þars gamlir sprungu
geirar, upp at Leiru.
Varð fyr víga Njǫrðum
Varrandi (sæ fjarri)
brendr á bygðu landi
(bœr heitir svá) Peitu.

15. Ríkr kvað sér at sœkja
Sauðungs konungr nauðir
fremðar gjarn í fornu
fund Hákonar sundi.
Strangr hitti þar þengill
þann jarl, es varð annarr
œztr ok ætt gat bezta,
ungr, á Danska tungu.

---

# Knútsdrápa.

(Brot).

Sighvatr Þórðarson orti.

1. Ok senn sunu
sló hvern ok þó
Aðalráðs eða
út flæmði Knútr.

---

2. Knútr 's und himnum.
Hykk ætt at frétt
Haralds í her
hug vel duga.
Lét lýrgǫtu
lið suðr ór Nið
Óláfr jǫfurr
ársæll fara.

3. Þurðu norðan
(namsk þat) með gram
til sléttс svalir
Silunds kilir.
En með ǫnnan
Ǫnundr Dǫnum
á hendr at há
her Sœnskan ferr.

4. Lét lǫnd lokit
liðs gramr saman
marbeðjum með
mǫrg nefbjǫrgum.
Gnúði fyr gnoð
grá hjálmunlá;
þreifsk brims þrima
Þundar umb ǫndr.

5. Máttut dróttnar
Danmǫrk spanit
und sik sǫkum
snarir herfarar.
Þá lét skjótla
Skáney Dana
hlǫðr herjaða.
Hǫfuð- fremstr -jǫfurr.

6. Knútr 's und himnum.
Hér austan ferr
fríðr fylkis niðr
fráneygr Dana.

Skreið vestan viðr,
var glæstr sás bar
út andskota
Aðalráðs þaðan.

7. Ok báru í byr
blá segl við rá
(dýr v's dǫglings fǫr)
drekar landreka.
En þeirs kómu
kilir vestan til
um -leið liðu
Limafjarðar brim-.

---

8. Léta af jǫfurr
(ætt manna fannsk)
Jótlands etask
ílendr (at því).
Vildi foldar
fæst rán Dana
hlífskjǫldr hafa.
Hǫfuð- fremstr -jǫfurr.

---

9. Kómu fylki
farlystir, 's bar
hervíg í hug,
hafanda staf.
Rauf ræsir af
Rúmsveg suman
kærr keisara
Klúspetrúsi.

10. Svá m'n fár feril
fetum suðr metinn
hringdrífr hafa.
Hǫfuð- fremstr -jǫfurr.

---

11. Ok Ellu bak
at lét hinn 's sat
Ívarr ara
Jórvík skorit.

---

# Bersǫglisvísur.

Sighvatr Þórðarson orti.

1. Vask með gram, þeims gumnum
goll bauð dróttinhollum;
nafn fekk hann en hrǫfnum
hræ þess konungs ævi.
Fullkerska sák falla
(fráneygjum sunr gránum
gaf margan val vargi)
verðung (konungs sverðum).

2. Fylgðak þeim es fylgju
fémildum, gramr! vildi
(nú þegnar frið fagna)
feðr þínum vel mína;
vasat á hæl með hjǫrvi
hlið þars stóðk í miðjum,
(hræsinn skal með hrísi)
hers flokki (við þjokkva).

3. Gekk við móð enn mikla,
Magnús! alt í gagnum
ferð, þars flokkar bǫrðusk,
faðir þinn liði sínu.
Varði hart, en hjǫrtu
hugfull við þat skullu,
(Óláfr réð svá) jǫfra
erfðir (fram at hverfa).

4. Hét, sás fell á Fitjum,
fjǫlgegn ok réð hegna
heiptar rán, en hánum,
Hákun, firár unnu.
Þjóð helt fast á fóstra
fjǫlblíðs lǫgum síðan
(enn eru af því minni)
Aðalsteins (búendr seinir).

5. Rétt hykk kjósa knáttu
karlfólk ok svá jarla,
af þvít eignum lofða
Óláfar frið gáfu.
Haralds arfi lét haldask
hvardyggr ok sunr Tryggva
lǫg, þaus lýðar þágu
laukjǫfn af þeim nǫfnum.

6. Ungr vask með þér, þengill!
þat haust es komt austan;
einn, stillir! mátt alla
jǫrð hegna (svá fregnisk).
Himin þóttisk þá heiman
hafa, es landa krafðir,
lofðungs burr! ok lifðir,
landfólk tekit handum.

7. Fǫður Magnúss létk fregna,
fólgin jǫfurs dólga
orð, þaus eyru heyrðu
ór, á svik hvé fóru;
mál bark hvert af heilum
hug, því́t eigi brugðumk,
(ek vissa þó) ossum
(ótta) lánardróttni.

8. Skalat ráðgjǫfum reiðask
(ryðr þat, konungr!) yðrum,
(dróttins orð til dýrðar)
dǫglingr! við bersǫgli.
Hafa kveðask lǫg, nema ljúgi
landherr, búendr verri
endr í Úlfasundum
ǫnnur, en hézk mǫnnum.

9. Fregnk at suðr með Sygnum;
Sighvatr hefr gram lattan
fólkorrostu at freista;
ferk ef þó skulum berjask.
Fǫrum í vápn ok verjum
vel (tyst) konung lystir
(hvé lengi skal) hringum
(hans grund?) til þess fundar!

10. Hverr eggjar þik, harri
heiptar strangr! at ganga
(opt reynir þú) þínum
(þunn stál) á bak málum?
Fastorðr skyli fyrða
fengsæll vesa þengill;
hœfir heit at rjúfa,
hjaldrmǫgnuðr! þér aldri.

11. Hverr eggjar þik hǫggva,
hjaldrgegnir! bú þegna?
Ofrausn es þat jǫfri
innan lands at vinna.

Engr hafđi svá ungum
áđr bragningi ráđit;
rán hygg rekkum þínum,
(reiđr 's herr) konungr! leiđask.

12. Gjalt varhuga, veltir,
viđr þeims nú ferr hiđra,
þjófs! (skal hǫnd í hófi)
hǫlđa kytt (of stytta).
Vinr 's sás, varmra benja,
vǫrnuđ býđr, en hlýđiđ,
tármútaris teitir!
til hvat búmenn vilja.

13. Hætt 's þaz allir ætla
(áđr skalt viđ því ráđa)
hárir menn, es heyrik,
hót skjǫldungi at móti.
Greypt 's þaz hǫfđum hnepta
heldr ok niđr í feldi
(slegit hefr þǫgn á þegna)
þingmenn nǫsum stinga.

14. Eitt es mál, þaz mæla,
minn dróttinn leggr sína
eign á óđul þegna,
ǫfgast, búendr gǫfgir.
Rán mun seggr, es sína
selr út, í því telja,
flaums at fellidómi
fǫđurleifđ konungs greifum.

15. Syni Óláfs biđk snúđar
(síđ kveđa aptans bíđa
óframs sǫk; međal okkar
alt 's háligt) svá mála.
Erumk, Magnús, vægnir;
vildak međ þér mildum
(Haralds varđar þú hjǫrvi
haukey) lifa ok deyja.

16. Óláfr létumk jǫfra
órýrr framast dýrđa;
urđu drjúg ens digra
dróttins þing međ hringum.
Goll bark jafnt of allan
aldr ok herverk sjaldan
hrygg á hvárritveggja
hendi flotna sendis.

17. Sighvats hugir, 's hittik,
Harđa Knúts í garđi,
mildr nema mjǫk vel skáldi
Magnús konungr fagni.
Fórk međ feđrum þeira
(fekk mér ungum tunga
golls; vask enn međ ǫllu
óskeggjađr þá) beggja.

---

# Óláfsdrápa Sœnska.

(Brot).

Óttarr Svarti orti.

1. Jǫfurr heyri upphaf,
ofrask mun konungs lof,
háttu nemi hann rétt
hróđrs míns, bragar síns.

2. Þengill vas þegar ungr
þreksgǫrr ok vígǫrr;
haldask biðk hans aldr,
hann telk yfirmann.

3. Ǫrn of etr undarn,
ylgr fær at hræm sylg,
opt of rýðr úlfr kjapt,
ari getr verð þar.

4. Braut, en breki þaut,
borð, óx viðar morð,
meðr fengu mikit veðr,
mjó fyr ofan sjó.

5. Vísi tekr víg-Freys
víst austr munarlaust
(aldar hefr allvaldr)
Óska víf (gótt líf).

---

# Hrynhenda.

(Brot).

Arnórr Jarlaskáld orti.

1. Magnús! hlýð til máttigs óðar!
Manngi veit ek fremra annan;
yppa ráðumk yðru kappi,
Jóta gramr! í kvæði fljótu.
Haukr réttr est þú, Hǫrða dróttinn!
Hverr gramr es þér stórum verri;
meiri verði þinn en þeira
þrifnuðr, allr unz himinn rifnar.

---

2. Herskip vant af harða stinnum
hlunni geyst í salt et eystra.
Skjǫldungr! stétt á skǫrum hveldan
skeiðarhúf með Gerzku reiði.
Vafðir lítt, en vendir bifðusk,
varta hrǫkk, en niðr nam søkkva
(geystisk hlýr en hristisk bára)
hrími stokkin búin gríma.

3. Rauðar báruð randir síðan,
rimmu-Yggr! of Sœnskar bygðir;
eigi gaztu liðskost lágan,
landsfólk sótti þér til handa.
Austan þurðu, úlfa ferðar
ǫldum kunnr, með hvíta skjǫldu,
tungu rjóðr! til tírar þinga
teknir menn ok dǫrr en reknu.

4. Austan komt með allra hæstum,
Yggjar más, í Þrœnda bygðir,
fiðrirjóðr! en fjandmenn yðra
fálma kváðu, œgishjálmi.
Breiðask vissu, blágamms fœðir
benja kólgu! yðrir dólgar
(hræddir urðu fjǫrvi at forða
fjandmenn þínir) vesǫld sína.

5. Ungan frák þik, eyðir, þrøngva,
úlfa gráðar! þeira ráði;
skjǫldungr stǫkk með skœðan þokka
skeiðarbrands fyr þér ór landi.
Eignask namtu, óðal þegna,
allan Nóreg, gotna spjalli!

manngi ryðr sér mildingr annarr
Mœra gramr! til landa œri.

6. Síðan vas þaz suðr með láði
siklingr ýtti flota miklum;
skíði vas þá skriðar auðit
skorðu; rendi Vísundr norðan.
Samnask bað til hverrar hǫmlu
(hræðask menn við ættar klæði
Gjúka; þótti gǫfugt eiki
Gerzkum málmi) Peitu hjálma.

7. Ótti, kunnuð elgjum hætta
œðiveðrs á skelfðan grœði,
fengins golls! eðr fœðið ella
flestan aldr und drifnu tjaldi.
Glíkan berr þik hvǫssum hauki,
hollvinr minn! í lypting innan
(aldri skríðr und fylki fríðra
farligt eiki) Vísundr snarla.

8. Eigi létuð, jǫfra bági!
yðru nafni mannkyn hafna;
hvártki flýr þú, hlenna rýrir!
hyr né málm í broddi styrjar;
hlunna es, sem rǫðull renni,
reiðar búningr, upp í heiði
(hrósak því es herskip glæsir
hlenna dólgr) eðr vitar brenni.

9. Mǫnnum lízk, es mildingr rennir
Meita hlíðir sævar skíði,
unnar jafnt sem ásamt renni
engla fylki himnaþengils.
Eyðendr frák at elska þjóðir
(inndrótt þín es hǫfð at minnum)
grœði lostins goði et næsta
geima vals í þessum heimi.

---

10. Ljótu varp á lypting útan
lauðri, bifðisk goll et rauða,
fastligr hneigði fúru glæstri
fýris garmr, of skeiðar stýri.
Stirðum helt umb Stafangr norðan
stálum, bifðusk fyrir álar,
uppi glóðu élmars typpi
eldi glík, í Danaveldi.

---

11. Heyra skalt, hvé herskjǫld báruð,
hilmis kundr! til Venda grundar,
(heppin drótt af hlunni sléttum
hélug bǫrð) í stefjaméli.
Aldri frák enn (vísi! valdið
Venda sorg), at dǫglingr spendi
(flaustum vas þá flóð of ristit)
fleiri skip til óðals þeira.

12. Skjǫldungr, fórt of óþjóð eldi;
auðit vas þá flotnum dauða;
hæstan kynduð, hlenna þrýstir!
hyrjar ljóma suðr á Jómi.
Hvergi þorði hallir varða
heiðit fólk í virki breiðu;
buðlungr! unnuð borgar mǫnnum
bjǫrtum eldi stalldræp hjǫrtu.

---

13. Skjǫldungr! lézt við skíra valdit
Skotborgar á Venda sorgum.
Yngvi! vas sá frægr, es fenguð,
fǫrnuðr þinn, við helming minna.
Verja lá þar valkǫstr hærri,
(vas þér sigr skaptr grams ens digra)
virðum kunn en víða runnin
varga ætt of klífa mætti.

---

14. Keppinn vant, þaz æ mun uppi,
Yggjar veðr, meðan heimrinn
byggvisk;
valgammr skók í vápnarimmu
viðr Helganes blóðugt fiðri.
Yngvi, fekktu ǫll með hringum
(jarl vissi sik foldar missa)
þjóðum kunnr! en þú tókt síðan,
þeira flaust, við sigri meira.

15. Hefnir, fenguð yrkisefni,
Áláfs! gørik slíkt at málum;
Hlakkar lætr þú hrælǫg drekka
hauka; nú mun kvæðit aukask.
Fjórar hefr þú, randa rýrir
reyrar setrs! á einum vetri
(allvaldr! est þú óvægr kall-
aðr)
ǫrva hríðir frœkn of gǫrvar.

---

# Rekstefja.

Hallar-Steinn Herdísarson orti.

1. Hers gnótt hǫlða sléttum
hljóðs kveðk mér at óði;
randhvels rennu-Þundi
rekstefju tekk hefja.
Skýrunn, skjaldar linna,
skalk fríðum lof smíða,
þing-Baldr! Þróttar mildum,
þeim es fremstr varð beima.

2. Vegmildr víðrar foldar
vǫrðr þá fóstr í Gǫrðum;
vellbjóðr vísar dáðir
vann, sás hæst gekk manna.
Blikruðr brigða miklum
brátt réð hann þeims átti
allprútt éla Þróttar
Óláfr skipa stóli.

3. Óláfr allra jǫfra
óttlaust, ok nam brjóta,
varghollr, Vinda borgir,
vestr hernað rak mestan.
Hrælinns hverju sinni
hljómváttandi knátti
sóknbráðr sigri ráða
Svǫlnis dóms í rómu.

4. Senn ǫll síðan runnu
snekkjubǫrð ór Gǫrðum
hermǫrg, hála tjǫrguð,
hildings und gram mildum.
Vestrlǫnd, virða kindir,
verfákum lét herjat
alldyggr arfi Tryggva
Áláfr, ok klauf stálum.

5. Fullsnart frœknu hjarta
fríðr þengill lét síðan
(hjǫr gall, hǫlðar fellu)
hefnd síns fǫður efnda.
Blóðugr bragnings þjóðar
brandr gall á Englandi;
ótrautt Enskrar dróttar
aldrspelli frák valda.

6. Ugglaust Íra bygðir
ókvíðinn lét síðan
él-Freyr Ullar kjǫla
endr fíkula brendar.
Skotland skǫrpum brandi
skjaldfryðr of nam ryðja;
oddr beit (úlfar sǫddusk)
ódeigr Skota feiga.

7. Frónbands fœriǫndrum
fríðr til Nóregs síðan
sker-Baldr Skǫglar elda
skjaldbúnum lét haldit.
Heiðinn heiman flýði
hildingr, né þar vildi,
áðr, enn Óláfs bíða
jarl, af sínu hjarli.

8. Haukjóðs harða víða
(hótt) Norrœnar dróttir
Þund-regns (þeim of vandak)
þengils á bý gengu.
Óráð illri þjóðu
Áláfr of galt dála;
vígrunnr velja kunni
víkingum hlut slíkan.

9. Fémildr fylkir vildi
firna mǫrg ok hǫrga
blóthús brenna láta;
bað hann heiðin goð meiða.
Siðvandr síðan kendi
sannfróðr trúu góða
herlundr hǫlða kindum.
Hann 's ríkstr konung-
manna.

10. Þjóð lǫnd þremja skyndir
þrenn kristnaði ok tvenna:
hildings hǫppum valda
hans ríki frák slíkum.
Mærings mǫnnum skýrisk
merki fremðar verka
eggmóts eigi lítil.
Óláfr und veg- sólar.

11. Ísland éla skyndir,
ítr lista, vann kristnat
gollmildr Grœnaveldi,
Gǫndlar þeys, ok Eyjar.
Handvíst Hjalta grundar
hann sem Nóregs manna
háttu hilmir bœtti.
Hǫll ok -fremstr at ǫllu.

12. Hafglóð hilmir sáði
hjaldrríkr ok gaf skjaldu,
(stétthrings stǫfnum veitti
stikka) vápn ok skikkjur.
Stórráðr steinda knǫrru
stillir fekk ok ekki
hildings hœfði mildi.
Hann 's ríkstr konung-
manna.

13. Húns nótt hverja knáttu
hirðmenn konungs spenna
gyld horn; grœðis meldrar
glaðr vísi drakk þaðra.
Víðfrægr velja tœði
vín húskǫrlum sínum
allvaldr einkar mildum.
Óláfr und veg- sólar.

14. Morðlinns mǫrgu sinni
móðþrútinn bjó úti
(húfr svall, hrannir fellu)
hvessimeiðr á skeiðum.

Gylt hlýr (gnǫpðu skoltar)
gunnfíkinn lét blíkja
herruðr hǫfnum fjarri.
Hǫll ok -fremstr at ǫllu.

15. Ǫrbjóðr átta skeiðum
efsta sinn ok þrinnum
(byrr varð) beita þorði
(brynn) ór Þrándheims mynni.
Ormr skreið (árar knýði)
ǫlna vang enn langi
(hirð prúð), hilmir stýrði.
Hann 's ríkstr konung-
manna.

16. Raunskjótt ræsir hitti,
rít (vasa friðr at líta)
sól rauð Svǫlnis éla,
senn dǫglinga þrenna.
Fimtán fjǫrnis mána
fleygjendr at gram rendu
Ekkils ýtiblǫkkum.
Óláfr und veg- sólar.

17. Grár reif, gørðu drífu
(gall brandr við slǫg) randa,
trolls marr trýni sollinn,
tveir nafnar, hræ jafnan.
Sœnskr herr sigri þorrinn,
sverð beit, en fló þeita,
hríð óx, hǫlðar flýðu.
Hǫll ok -fremstr at ǫllu.

18. Ǫrbragðs ærir lǫgðu
annat sinn at linna
(grimt varð Gǫndlar borða
gnaust) sex tegum flausta.
Danskr herr dýran harra,
drótt hné mǫrg, þars sótti;
hirð fell, hrafnar gullu.
Hann 's ríkstr konung-
manna.

19. Strǫng (varð) stálin sungu
(sterkligt jǫfurs merki);
gramr skaut; gørðisk rimmu
gangr umb Orm enn langa,
nýtr herr Nóregs gætis
nær vasa trauðr at særa
orðprúðs Jóta ferðir.
Óláfr und veg- sólar.

20. Myrkt hregg mækis eggja
meinilla gekk Sveini;
drótt hné dreyra þrútin,
Danir skunduðu undan.
Tandr beit, tyggi rendi
tveim dǫglingum, Skǫglar;
hans vǫrn hefðisk firnum.
Hǫll ok -fremstr at ǫllu.

12. Ítr jarl einkar snarla
endr fimm skipum rendi
þrekmanns þriðja sinni
þremja storms at Ormi.
Ben lét (bǫrðusk ýtar)
brynskíðs viðum svíða
Hyrningr heiptar gjǫrnum.
Hann 's ríkstr konung-
manna.

22. Ránsíks remmilauka
rógsvellir bað fella
(styrr þreifsk) stœriaska
strangr á Orm enn langa.
Ættstórr ella mátti
Eiríkr í dyn geira

oflinn aldri vinna.
Óláfr und veg- sólar.

23. Hvast skaut (hlífar brustu)
hildingr ór lyptingu,
síðan sýnt nam eyðask,
sóknstrangr, Ormr enn langi.
Unnelds yppirunnum
engi kann svá lengi
hegju hilmis segja.
Hǫll ok -fremstr at ǫllu.

24. Hjǫrflóðs hnykkimeiðum
hér 's of slœm at dœma
hnigreyrs harða stóran;
hefk þar lokit stefjum.
Iðvandr aðrar dáðir
ek fýsumk nú lýsa
gnýbjóðs geysit:ðar
geira hóti fleira.

25. Tvær senn (tyggja vinnur
telk), þærs ek veit fæformer
gnýlinns Gǫndlar runna,
gramr íþróttir framði.
Hyr-Baldr hvítra skjalda
handsǫxum lék vandla,
fleinrjóðr flestra dáða
frárr, ok gekk at árum.

26. Valstafns vætki rofna
viti menn at frák tvenna
hans manns hringi ljósum
hirðmeðr konungs veðja;
(hermart) hjǫrva snyrtir
hvárr lézk grams í hamri
(styrremðr stillir framði
stœrra) ǫðrum fœrri.

27. Annarr ǫðlings manna
ókvíðinn réð síðan
(stígr varð stála sveigi
strangr) í bjarg at ganga.
Hátt fjall hvártki mátti
(hans líf v's þrotit) klífa
eldruðr ǫlna foldar
upp eðr niðr frá miðju.

28. Hilding hvast frák ganga
(hann réð prútt ept manni;
ráðvandr hilmir rendi
ríp) í bratta gnípu.
Þrekleyfðr þengill hafði
[þat vas endr] und hendi
(sigrþoll svá barg stillir)
sínn dreng ok gekk lengra.

29. Dáðstyrk dýrðar merki
dólgminnigs skalk inna
skýbjóðs skelfihríðar
Skǫglar borðs en fjorðu.
Harðleygs hrinda frágum
hvatlyndum Þorkatli
styrlund stirðra branda
storms fyr borð af Ormi.

30. Spell vann (sparðit stillir)
spjótrunns (skaða bótir)
meingarðr margra jarða
mikit dýrligri skikkju.
Goðvefr gǫrðusk jǫfri
grán ok skinn á hánum
senn á svipstund einni
síðan jǫfn eðr fríðri.

31. Ǫrrjóðr allra dáða
jarteignir vann bjartar

(dvergs regn dreyra megnum
dimt) í sinn et fimta.
Sigrgjarn sólu vænni
sénn vas skrýddr með prýddum
dǫglingr dróttins englum
dýrðar fúss í húsi.

32. Hringskóðs herðimeiðar
hvar vitu þann, es anni,
ellvelds annan stilli,
óðríkr frama slíkum,
gunnelds geymirunnum
(gǫndlar fýst) sem lýstak
(hirð vas hans at morði
hrygg) arfþegi Tryggva.

33. Þengill þróttar strǫngum
þeim bauð Kristr af heimi
byrtjalls beztu heilli
(bragningi goð fagni!).
Ygglaust alla þiggi
eljunfimr á himnum
Óláfr œzta sælu
ítrbóls með gram sólar!

34. Hermart hvikkvæði ortu
hugdyggs of sun Tryggva
handbáls hnykkilundar
hreins ok flokka eina.
Hallfreðr Hǫrða stilli
hríðǫflgum vann smíðat
hjǫrgráps hugða drápu,
hróðrargjarn ok Bjarni.

35. Eigi einkar lága
ek fæ ena þriðju,
hyr-Njǫrðr, hróðri stœrða,
hóps, tvískelfða drópu.
Slíkr háttr (svá munk vátta)
sjaldstundum verðr fundinn.
Herr prúðr hǫrvi kvæða
hafi gagn! En ek þagna.

---

# Eiríksdrápa.

(Brot).

Markús Skeggjason orti.

1. Harra kveðk at hróðrgørð dýrri
hauklundaðan Danagrundar.

. . . . . . . . . . . .

2. Eiríks lof verðr ǫld at heyra;
engi maðr veit fremra þengil.
Yngvi helt við orðstír langan
jǫfra sess í verǫld þessi.

. . . . . . . . . . . .

3. Fjarri hefr at fœðisk dýrri
flotna vǫrðr á élkers botni
(háva leyfir hverr maðr ævi
hringvarpaðar) gjálfri kringðum

. . . . . . . . . . . .

4. Fœðir sótti fremðar ráða
foldar vǫrðu austr í Gǫrðum;
auði gœddu allvald prúðan

ítrir menn, es hnoggvi slita.
Stillir varđ of Austrveg allan
einkar tíđr enn mærđar blíđi;
hinn vas engr, es hans nafn
kunnit,
heiđar manns, i lofi reiđa.

5. Vár ǫndvert bjó Vinda rýrir
vegligt flaustr ór Gǫrđum austan;
hlýrum skaut á hola báru
helmings oddr í sumars broddi.
Hlýđu studdi borđviđ breiđan
bróđir Knúts í veđri óđu;
síđan knátti svikfólks eyđir
snilli kendr viđ Danmǫrk lenda.

---

6. Ræsir lét af rođnum hausi
Rínar sól á marfjǫll skína.

---

7. Drengir þágu auđ af yngva,
ǫrr fylkir gaf sverđ ok knǫrru;
Eiríkr veitti opt ok stórum
armleggjar rǫf dýrum seggjum.
Hringum eyddi harra sløngvir
hildar rammr, en stillir framđi
firđa kyn at flestir urđu
Fróđa stóls af hánum góđir.

8. ,Vǫrgum eyddi Vinda fergir,
víkingum hepti gramr fikjum,
þjófa hendr lét þengill stýfa,
þegnum kunni ósíđ hegna.
Aldri fráttu, at Eiríkr vildi
allréttligum dómi halla;
hála kunni sér til sælu
sigrs valdari gođs lǫg halda.

9. Hróđigr átti brynþings beiđir
bjartan auđ ok frœknligt hjarta,
minni gnógt ok mannvit annat
mest; fylgđu því hvergi lestir.
Alla hafđi ǫđlingr snilli,
ungr of nam hann margar tungur;
Eiríkr vas, sás mátti meira,
mestr ofrhugi, jǫfri flestum.

10. Lýst skal hitt, es lofđungr fýstisk
langan veg til Róms at ganga
(fylkir sá þar friđland bálkat
Feneyjar) liđ dýrđ at venja.

11. Bróđir gekk i Bár út síđan,
bragningr vildi gođdóm magna,
(hylli gođs mun hlífa stilli)
hǫfuđskjǫldunga fimm (at
gjǫldum).

12. Stóra sótti Haralds hlýri
helga dóma út frá Rómi,
hringum varđi áttkonr Yngva
auđig skrín međ golli rauđu.
Mildingr fór of munkaveldi
móđum fœti sál at bœta;
sveitir kendu allvalds útan;
Eiríkr vas til Róms í þeiri.

13. Eiríkr náđi útan fœra
erkistól umb Saxa merki;
hljótum vér þaz hag várn bœtir
hingat norđr at skjǫldungs
orđum.

14. Eyđisk hitt, at jafnstórt ráđi
annarr gramr til þurftar
mǫnnum.
Leyfđi alt, sem konungr krafđi,
Krists unnandi pávi sunnan.

15. Veldi þorðut Vindr at halda,
(villan gørðisk þeim at illu,
sunnan kom þá svikdóms manna
sátta rof) þaz buðlungr átti.

16. Yngvi helt í óðastrǫngum
ǫldugangi skipum þangat;
hlýðan skalf, en hristi grœðir
hélug bǫrð fyr Vinda gǫrðum.

17. Rǫndu lauk umb rekka kindir
risnumaðr, svát hver tók aðra;
hamalt (knáttu hlífar glymja)
hildingr fylkði liði miklu.

18. Styrjǫld óx umb stilli ǫrvan,
strengr báru fram vísis drengir,
mildingr gekk at miklum hjaldri
málmi skrýddr ok faldinn hjálmi.

19. Hǫrga varðisk herr í borgum,
hjaldrganga vas snǫruð þangat,
harðir kníðusk menn at morði,
merki blés umb hilmi sterkan.
Eiríkr vakði odda skúrir,
eggjar týndu lífi seggja;
sungu járn, en sœfðusk drengir,
sveiti fell á valkǫst heitan.

20. Blóði dreif á randgarð rauðan,
rógs hegnir drap ótal þegna;
framði sik, þars fólkvápn glumðu,
fylkir ungr, en brynjur sprungu.

21. Heiðinn vildi herr of síðir
hǫmlu vígs ór porti gǫmlu;
urðu þeir, es virkit vǫrðu
vangi næst, á hǫnd at ganga.

22. Heiðin váru hjǫrtu lýða
hrygðafull í Vinda bygðum,
eldrinn sveif umb ótal hǫlða,
Eiríkr brendi sali þeira.
Eisur kyndusk hátt í húsum,
hallir náðu vítt at falla;
óttu leið, en uppi þótti
elris grand í himni standa.

23. Eiríkr vas með uppreist hári,
undan flýðu Vindr af stundu,
gjǫld festu þá grimmir hǫlðar,
gumnar váru sigri numnir.
Yngvi talði erfðir þangat,
alþýða varð stilli at hlýða,
veldi réð því ástvinr aldar
einart, lá þat fyrr und Sveini.

24. Flaustum lukði fólka treystir
foldar síðu brimi kníða.
Ǫrr vísi bað oddum læsa
úrga strǫnd ok svalri rǫndu.
Hlífum keyrði hersa reifir
harðla nýtr of landit ýtra;
hilmir lauk við hernað ólman
hauðr Eydana skjaldborg rauðri.

25. Víða setti vísdóms grœðir
virki skrýddar hǫfuðkirkjur,
gørva lét þar hollr of hérud
hrein musteri fimm af steini.
Váru þau með trygðar tíri
tíða flaustr, es gramr lét smíða
bǫðvar snjallr ok beztr at ǫllu
borði merkð, fyr Saxa norðan.

26. Blíðan gœddi bjǫrtum auði
Bjarnar hlýra Frakklands stýrir,
stórar lét sér randgarðs rýrir
ríks keisara gjafar líka.
Hánum lét til hervígs búna

harra spjalli laðmenn snjalla
alla leið, áðr ǫðlingr náði
Jóta grundar Cesars fundi.

27. Dróttum lét í Danmǫrk settan
dǫglingr grundar skamt frá Lundi
erkistól, þanns ǫll þjóð dýrkar,
eljunþungr, á Danska tunga.
Hildingr framði heilagt veldi;
hvargegnan má Ǫzur fregna
(hánum vísar hǫlða reynir
himna stíg) til biskups vígðan.

28. Lýst skal hitt, es læknask fýstisk
liðhraustr konungr sár en iðri;
norðan fór með helming harðan
hersa mœðir sál at grœða.
Harri bjósk til heims ens dýrra;
hann gørði fǫr út at kanna
(buðlungr vildi bjart líf ǫðlask)
bygð Jórsala friði trygða.

29. Báru menn ór borgum stórum
bleyðiskjars á móti harra
(sungit vas þá herr tók hringja)
hnossum gǫfguð skrín ok krossa.
Aldri fær í annars veldi
jǫfra ríkir metnað slíkan;
eitt vas sér, þaz jafnask mátti
engi maðr við Dana þengil.

30. Hildingr þá við hæst lof aldar
hǫfgan auð í golli rauðu,
hálfa lest, af harra sjálfum
harðla ríkr í Miklagarði.
Áðan tók við allvalds skrúði
Eiríkr, þótt gefit vas fleira;
reynir veitti herskip hánum
hersa máttir sex ok átta.

31. Andar krafði út í lǫndum
alls stýrandi konung snjallan;
elli beiðat óvægr stillir,
aldrstríð þat fregit es víða.
Síðan harma siklings dauða
snjallir menn of heimsbygð alla;
drúpir herr at dólga steypi
dyggvan; þat tér verǫld hryggva.

32. Hvergi stóðusk hjǫrva borgar
hristimeiðar konungs reiði;
raunar varðat rǫnd við hánum
reist; gørðut þess jǫfrar freista.
Ógnin stóð af jarla meiði;
engi þorði kapp at strengja
(flestir ugðu foldvǫrð hraustan)
fylkir snarr við Dana harra.

---

# Geisli.

Einarr Skúlason orti.

1. Eins má (óð ok bœnir
allsvaldanda ens snjalla,
mjǫk 's fróðr, sás getr greiða)
goðs þrenning mér kenna.
Gǫfugt ljós boðar geisli
gunnǫflugr miskunnar

(ágætan býđk ítrum
Óláfi brag) sólar;

2. Þeirars heims. í heimi,
heims myrkrum brá, þeima,
ok ljós, međan vas vísi
veđrs, kallađisk, hallar.
Sá lét bjartr frá bjartri
berask mannr und skýranni
(frægr stóđ af því) flœđar
(fǫrnuđr) rǫđull stjǫrnu.

3. Síz, heilags, brá sólar
setr, vas þat fyr betra
auđfinnǫndum annars
ómjós rǫđuls, ljósi.
Œztr þrifnuđr nam efnask
oss, þás líf á krossi
jarđar allra fyrđa
ónauđigr tók dauđa.

4. Upp rann (engla skepnu
iđvandr) of dag þriđja
(Kristr ræđr krapti hæstum)
kunn réttlætis sunna.
Veitk, at mildr frá moldu
meginfjǫlđi reis hǫlđa
(iflaust má þat efla
ossa ván) međ hánum.

5. Sunr sté upp međ ynđi
auđarmildr frá hauđri,
jǫfra baztr, til œztrar
allsráđanda hallar.
Lofađr sitr ǫllum øfri
(ǫđlinga hnígr þingat
dǫglings hirđ) á dýrđar
dagbóls konungr stóli.

6. Veitti dýrđardróttinn
dáđvandr gjafar anda
(mál sanna þau) mǫnnum
máttigs (framir váttar).
Þađan reis upp, sús einum,
alþýđ, gođi hlýđir;
hæstr skjǫldungr býđr hǫlđum
himinsvistar til kristni.

7. Nú skulum gǫfgan geisla
gođs hallar vér allir,
ítr þanns Óláfr heitir,
allstyrkan vel dyrka.
Þjóđ veit hann und heiđa
hríđblásnum sal víđa
(menn nemi mál, sem innik,
mín) jarteignum skína.

8. Heyrđu til, afreks, orđa,
Eysteinn konungr, beinna!
Sigurđr, hygg at því, snøggjum,
sóknsterkr, hvék fer verka!
Drengr berr óđ fyr Inga;
yđvarrar biđk styđja
mærđ, þaz miklu varđar,
máttigt hǫfuđ áttar.

9. Yfirmanni býđk (unnin
upp 's mærđ komin) lærđrar,
Jóan kallak, allrar
alþýđu brag hlýđa.
Hófum hróđr, enn leyfa
hygg vin rǫđuls tyggja
(stóls vex hæđ, þars hvílir
heilagr konungr) fagran.

10. Oss samir enn at þessu
(orđgnóttar biđk dróttin
aldar) Óláfs gilda

ítrgeđs lofi kveđja.
Fannk aldri val vildra
vallrjóđanda allra
(raun dugir rétt) í einu
ranni fremđarmanna.

11. Þreklynds skulu Þrœndir
þegnprýđis brag hlýđa
(Krists lifir hann í hæstri
hall) ok Norđmenn allir.
Dýrđ es ágæt orđin
eljunhress í þessu
þjóđ-, né þengill fœđisk
þvílíkr, -konungs ríki.

12. Sighvatr, frák, at segđi
sóknbráđs jǫfurs dáđir;
spurt hefr ǫld, at orti
Óttarr of gram dróttar.
Þeir hafa þengils Mœra,
[því 's sýst] frama lýstan,
(helgum lýtk) es hétu
hǫfuđskáld (fira jǫfri).

13. Réđ ok tólf, sás trúđi,
tírbráđr, á guđ, láđi
(þjóđ muna) þengill (bíđa)
þrjá vetr (konungs betra),
áđr fullhugađr felli
fólkvaldr í dyn skjalda
(hann speni oss) fyr innan
Ǫlvishaug (frá bǫlvi!).

14. Móđs vann margar dáđir
munnrjóđr Hugins kunnar
(satt vas, at siklingr bœtti
sín mein) gođi einum.
Leyndi lofđungr Þrœnda
liđgegn snara þegna
(fæstr gramr hefir fremri
fœzk) háleitri gœzku.

15. Fregit hefk satt, at segđi
snjallri ferđ, áđr berđisk,
(drótt nýtr dǫglings máttar)
draum sínn konungr Rauma.
Stiga kvađ standa fagran
styrjarfimr til himna
(rausn dugir hans at hrósa)
Hǫrđa gramr af jǫrđu.

16. Auk hagliga hugđisk
hrøkkvibaugs ens døkkva
lyngs í lopt upp ganga
látrstríđandi síđan.
Lét, sás landfólks gætir,
líknsamr himinríki
umbgeypnandi opna
alls heims fyr gram snjallum.

17. Vakit frák víg á Stikla-,
víđlendr, -stǫđum síđan,
Innþrœndum lét undir
álmreyrs lituđr dreyra.
Heims þessa frák hvassan,
hvatir feldu gram skatnar,
(þeir drýgđu bǫl) brigđu
baugdríf numinn lífi.

18. Fúss emk, þvít vann vísi
(vas hann mestr konungr) flestar,
(drótt nemi mærđ!) ef mættak,
manndýrđir, stef vanda.
Greitt má gumnum létta
gođs ríđari stríđum;
hraustr þiggr alt, sem æstir,
Óláfr af gram sólar.

19. Náđit bjartr, þás beiđir
baugskjaldar lauk aldri,
(sýndi salvǫrđr grundar
sín tákn) rǫđull skína.
Fyrr vas hitt, es harri
hauđrtjalda brá, aldri,
(hept nýtask mér mætti
máltól) skini sólar.

20. Gørđusk brátt, þars barđisk
broddrjóđr viđ kyn þjóđar,
(gramr vanđit sá synđum
sik) jarteignir miklar.
Ljós brann líki ræsis
lǫgskíđs yfir síđan,
þvít ǫnd međ sér (sýndisk
samdœgris) gođ framđi.

21. Dýrđ lætr dǫgling Hǫrđa
(dyljat međr þess) gleđja
ítr (munat ǫđlingr betri)
alls grœđari (fœđask).
Greitt má gumnum létta
gođs ríđari stríđum;
hraustr þiggr alt, sem æstir,
Óláfr af gram sólar.

22. Drótt þó dýran sveita
dǫglings ríks af líki
(ván gleđr hug) međ hreinu
hás (batnađar) vatni.
Satt 's, at Sygna dróttin
særendr gođi kæran
hrings (skulu heyra drengir
hans brǫgđ) í grǫf lǫgđu.

23. Þar kom blindr (enn byrjak
blíđ verk) muni síđar
auđarnjótr, es ýtar
jǫfurs bein þvegit hǫfđu.
Sjónbrautir strauk sínar,
seggjum kunns, í brunni
árr, þeims Óláfs dreyra,
orms landa, vas blandinn.

24. Sjón fekk seggr af hreinu,
(sú dyrđ muna fyrđum)
fǫrnuđr vas þat (fyrnask)
fjǫlgóđr, konungs blóđi.
Greitt má gumnum létta
gođs ríđari stríđum;
hraustr þiggr alt, sem æst
Óláfr af gram sólar.

25. Tólf mánuđr vas týnir
tandrauđs huliđr sandi
fremđarlystr ok fasta
fimm nætr vala strætis,
áđr enn upp ór víđu
úlfnistanda kistu
dýrr lét dróttinn harra
dáđmilds koma láđi.

26. Mál fekk mađr, es hvílir
margfríđr jǫfurr, síđan,
áđr sás orđa hlýđu
afskýfđr farit hafđi.
Frægđ vinnr fylkis Egđa
fólksterks af því verki;
jǫfurs snilli þreifsk alla
ungs á Danska tungu.

27. Fǫđur skulu fulltings biđja
(fremđarþjóđ) enn góđa
(mœđir mart á láđi)
Magnúss hvatir bragnar.

þangat til er þau með englum
(þat er blíðan mest) lifði síðan
viðr afspringit alt, þat er féngi,
ævinliga ok þakkir gæfi.

14. En at verðleikrinn víss á jǫrðu
vyrði sǫk til himnadyrðar,
boðorðit eitt lét fram blíðr
dróttinn,
býðr þeim í skyldu at hlýða:
"Eplit eitt ek banna at bíta
báðum ykkr, enn þit munuð ráða;
deyja skuluð, ef efnið eigi
einfalt boð með dyggleik
hreinum."

15. Þrútnar, svellr ok unir við illa
engill bann, þat er hafði fengit,
fyrðasveitin fædd á jǫrðu
fái þar vist, er sjálfr hann misti.
Ok bruggandi dauðans dreggjar
duldist hann fyr augsjón manna
fjǫlkunnigr; í einum innan
ormi tók hann mál at forma.

16. Sem prófandi segir, at "Eva!
svara mér skjótt, enn hví hefr
dróttinn
sætast ykkur blóm at bíta
bannat, lofat enn flest alt annat?"
Svá fór þat, er svaraði Eva,
sem margbrugðinn fjandinn
hugði:
"Að ei fari vit lífs af leiðum
léttliga hrǫpum í dauðans
stéttir."

17. Léttliga fann ljósan, sem vætti,
léttleikann í svaranna reikan,
því treystist hann framt at freista,
flærðum settr, ok talar með
prettum:
"Eigi munu þit Adám deyja,
annlitshvít! þótt eplit bítið;
heldr munuð með heiðri ok
valdi
horsk ok rík við guðdóm líkjast."

18. Auðgint mjǫk, því́t Eva trúði,
át hon blóm, enn tapaði sóma,
og ðar með sér Aðám teygði:
át hann nú þat, er vissi bannat;
ugði hann, at Eva stygðist,
ef neitaði bæn at veita.
Fjandinn gat svá fyrstu blindat
feðgin vár með nógu dári.

19. Refsar þeim at réttum dómi
ríkr herra fyr ódygð slíka,
rak þau braut af sæmdarsæti
snauð ok nǫkt í myrkr ok dauða.
Veltust aum í veslum heimi
víða lands, þar er nær ǫll síðan
lýða kind með sárum syndum
sendist fram af Adáms lendum.

20. Remman brast af rót í kvistu;
rann þá glæpr af hverjum til
annars.
Leið svá heimr um langan tíma
lífs andvani enn fullr af grandi;
léttir hvárki ugg né ótta;
eitt er mest, er þó 'r at lesti:
opit helvíti, búit með bǫlvi,
bauð sik fram við hvers manns
dauða.

21. Heimr er dauđr, enn hvat er
ráđa?
Hvar getr þann, er sér megi
bjarga?
Hvergi, þvít í synda saurgan
sannliga hverr at þyngir annan.
Eitt er til, þat er ek skal vátta:
ák grátandi frammi at standa,
attu sjálfr, hinn dýri dróttinn!
dugi nú ferđ, svát lífguđ verđi!

22. Tendrast ǫll ok tala međ snilli,
tunga mín! af herra þinum!
Um stórmerkin áttu at yrkja
yfirspennanda heima þrennra.
Bjúg ok sár í bandi værir,
bandi rétt hins neđsta fjanda,
nema hjálpræđi guđs hit góđa
gefit á jǫrđ mik leystan hefđi.

23. Veitt er líf, þat er varđ ok mátti!
Veitt er líf, þat er Adám neitti!
Sú miskunn á settum tíma
sendist fram af guđdóms hendi,
ljós í heim at lifanda kæmi,
lifanda víst, ok kvaldar andir
tæki í braut ór djǫfla díki;
dýrđ englanna slíku stýrđi.

24. Nær ok firr međ skygnleik
skýrum
skapandi alt međ syni ok anda,
feđrpersónan engli einum
erendi býđr, enn þessi hlýđir:
"Fljúg ok seg þat Márju meyju
mætri, þeirri 'r ek skal gæta:
minn einka son holdi hennar
hlýđinnar vill bjǫrtu skrýđast."

25. Móđir oss er Márja þessi,
mektar blóm enn full af sóma,
glæsilig sem rođnuđ rósa
runnin upp viđ lifandi brunna,
rót ilmandi lítillætis,
logandi ǫll međ skírleiks anda,
guđi unnandi ok góđum
mǫnnum,
guđi líkjandi í dygđum slíkum.

26. Engi sék at jarđlig tunga,
enn háleiti stjǫrnureitar
dróttinn! þér, sem verđugt væri,
vandat fái nú stef til handa.
Sé đér dýrđ međ sannri
prýđi,
sunginn heiđr af ǫllum
tungum
eilífliga međ sigri ok sælu!
sæmd ok vald þitt minkist
aldri!

27. Leiđ, sigrandi páfugls prýđi,
pentat innan firmamentum,
Gabriel sem geisli sólar
gleđiligur í lopt hin neđri.
Sendibođi kom sjaufalds anda
(svá 'r greinanda) at húsi einu;
sannr meydómrinn sat þar inni,
sjálft hreinlífit, gimsteinn vífa.

28. Ok svá veik at meyju mjúkri:
"Márja! hlýđ nú orđum várum!
frægast víf! þér færik ave,
full miskunnar sætleiks brunna!
Samangeypnandi sína skepnu,
sannr hǫfđinginn engla ok
manna

byggvir þér fyr brjósti skæru,
blessuð mær! þú ert sprundum
hærri."

29. Heyrði ok trúði enn undrast
orðin
jungfrú kyrr, þvít vissi fyrri
aldri kvaddan mann á moldu
meðr þvílíkri tígnarkveðju.
Fyrbjóðandi henni at hræðast
hǫfuðengillinn talaði lengra:
"Guð himnanna fram mun
fæðast,
frúin skínandi! af holdi þínu."

30. Fréttir nú, með hverjum hætti
henni bæri til fǫgnuð þenna,
borgarmúrr svát brysti hvergi
bygð geymandi hreinleiks dygða.
Engill segir, at ei mun synngast
jungfrú blíð, þá 'r sveinn er
smíðaðr,
haglig myndan heilags anda,
'hold ok bein af líkam hreinum.

31. Loptin ǫll af ljósi fyllast,
legir á grundu stóðu ok undrast,
kúguð sjálf af nærri nógu
náttúran sér ekki mátti.
Giptist ǫndin guðdóms krapti
góðu ok huldist Márju blóði;
glaðrar dvelst í jungfrú iðrum
ein persóna þrennrar greinar.

32. Hjǫrtun játi, falli ok fljóti
fagnaðarlaug af hvers manns
augum,
æ þakkandi miskunn mjúka,
minn dróttinn! i holdgan þinni!
Sé þér dýrð með sannri
prýði,
sunginn heiðr af ǫllum
tungum
eilífliga með sigri ok sælu!
sæmd ok vald þitt minkist
aldri!

33. Fimm mánuðum ok fjórum síðar
fæðist sveinn af meyju hreinni,
skygnast sem þá 'r glerit í
gegnum
geislinn brár fyr augum várum:
glóar þar sól af glerinu heilu,
gleðiligt jóðit skínn af móður
at innsigli hǫldnu hennar
hreinferðugastra meydóms-
greina.

34. Engi heyrðust, engi vurðu
jǫfn tíðendin fyrr né síðar,
bæði senn þvít mey ok móður,
mann ok guð bauð trúan at
sanna.
Loptin sungu komnum kóngi
kunnigt lof, þar er hirðar runnu.
Himna dýrðin hneig á jǫrðu,
hér samtengðust menn ok englar.

35. Þó var ei svá rík, at reifa,
ríkust móðir, ætti góða;
því var kóngrinn hǫrðu heyvi
huldr, at mætti firrast kulda.
Umsniðningar Jesú prýði
átti dagr af fæðing váttar;
æsist blóð á líkam ljósan,
lagast minnilig tár af kinnum.

36. Á þrettánda dag til dróttins
dýrðarmenn, er ríkjum stýrðu
austr í heim, með offri kómu
ungan mann at prísa á þann veg.
Umrennandi sex at sinnum
sex daga grein ok fjórum einum
offrast kaus fyr oss at vísu
Jesús sjálfr í musteris hválfi.

37. Vígðist oss, þá 'r vatni dǫgðist,
valdr himnanna á þrítugs aldri;
í Jórðán með æðar hreinar
Jón baptista dróttni þjónar.
Þessi ástvinrinn Jesú Kristí
er nú váttr, er þann dag mátti
sjá skínandi á grænni grundu
guðs þrenning með lýðum
kennast.

38. Finn ek, alt at mannvit manna
mæðist, þegar er um skal ræða
máttinn þinn, hinn mikli dróttinn!
meiri er hann enn gǫrvalt annat.
Sé ðér dýrð med sannri
prýði,
sunginn heiðr af ǫllum
tungum
eilífliga með sigri ok sælu!
sæmd ok vald þitt minkist
aldri!

39. Undrast tók hinn forni fjandi
fæddan mann, er skilja var
bannat;
og ðvílíkt sem andinn segði
orðin slík af tungu forðum:
"Þykki mér, sem nýjung nǫkkur
nálgist heim ok ættir beima;
eitthvat klókt mun dróttinn
dikta;
duldr em ek, þvít ferr af huldu."

40. "Jesúm tígna engla rásir
upp ok niðr af himni þriðja,
stjǫrnuljós ok færðar fórnir,
friðar samband á hverju landi.
Slík afla mér sóttarauka
sǫnn stórmerkin veitt hjá
mǫnnum;
kvíðik, at hans remming ráða
ríði mér at báðum síðum."

41. "Feðrætt hans trúik fá munu
hitta,
finnst móðernit hér með þjóðum;
þó 'r atferðin Jesú burðar
undarlig, svát skil ek þat varla.
Ekki er mér á þessum þokki,
þanninn ferr þeim unga manni:
aldri var sá fyrr á foldu
fæddr maðr, er ek næsta hræddumst."

42. "Þystir hann ok er fǫlr af fǫstum,
firrist hlátr, enn kann at gráta,
mæðist hann ok er móður sinnar
mjólku fæddr enn reifum
klæddist.
Finn ek þó, at í slíku sannan
sjálf náttúran manndóm váttar;
fýsir mik því fram at æsa
flein ódygðar honum at meini."

43. "Mér virðist, sem miklu hærra,
mætr guði, hann Adám sæti,
áðr ek sveik þau Evam bæði

ærusnauð í myrkr ok dauða.
Satt er, at fæstir sjá við prettum;
svá mun enn um Jesúm þenna;
því treystumst ek framt at freista;
forðum hefr ek slægvitr orðit."

44. Sonr Máríu! Sonr hinn dýri!
Son menniligr guðs ok hennar!
Kenndu mér at forðast fjandann
fjǫlkunnigan enn þér at unna!
Sé ðér dýrð með sannri
prýði,
sunginn heiðr af ǫllum
tungum
eilífliga með sigri ok sælu!
sæmd ok vald þitt minkist
aldri!

45. Frétt hefr ek, at freistar dróttins
fǫstumóðs á ýmsum lǫstum
púkans slægð, er hveru mann
hugðist
hrekkjum vǫn í synd at blekkja.
Vélakrings á vǫfðum strengjum
vundin opt enn snerust á lopti
skeytin ǫll hin flærðarfullu
fjandans brjóst í gegnum standa.

46. Þessu næst hins kæra Kristí
kenning tók um bygð at renna,
lífþjónandi lærisveina
leitar, finnr ok þar með veitir
blindum, hrjúfum, dumbum,
daufum,
dauðum, krǫmdum, ærum,
lǫmdum,
augu, græðing, orð, at hlýða,
andir, heilsu, vizku, at standa.

47. Þetta sér hann fjandi, at fættist
fólkit hans, ok lízt þat vansi,
dæmin góð at vaxa víða,
verri brǫgð ok lýtin þverra.
Púkinn kvaldr ok þeygi þoldi
þenna leik, er hafðan kennir,
því flýtandi sínum sveitum
syndabrjót at drepa sem skjótast.

48. Leiðan dreng at ljótum ráðum
lokkar hann svá Jesú manna,
yfirmorðinginn, innan hirðar —
Júðas nefndr, er óvænt stefndi;
mildan guð því silfri seldi
sveitum þeim, er Júðar heita,
fullum upp af grimdar galli;
grenjaði þjóstr í þeirra brjóstum.

49. Fúsir hlupu ok fundu Jesúm,
fundinn hrǫktu, lǫmdu ok bundu,
bundinn leiddu, heiðnir hæddu,
hæddan, rægðan, slógu af-
klæddan.
Fjandans bǫrnin þrǫngum þyrni
þessi spenna um blessat ennit;
þessir negldu Krist á krossinn,
keyra járn, svát stǫkk um
dreyrinn.

50. Ættim vér á Jesúm dróttin
ífunarlaust með fullu trausti
út af hjartans innstum rótum
allir senn með gráti at kalla.
Sé ðér dýrð með sannri
prýði,
sunginn heiðr af ǫllum
tungum

eilífliga með sigri ok sælu!
sæmd ok vald þitt minkist
aldri!

51. Yfirmeistarinn allra lista!
Jesús góðr, er lífgar þjóðir!
veittu mér at stilla ok stýra!
steflig orð megi tungan efla.
Æfinliga með lyptum lófum
lofræðandi á kné sín bæði
skepnan ǫll er skyld at
falla,
skapari minn! fyr ásjó
þinni.

52. Eru æ minnilig eptirdæmi
yfirvaldanda himins ok landa:
hneigði nú sinn háls ok beygði
hverjum þræl, er lysti at berja,
fátalaðr með lítillæti,
lágraustaðr með ásjón fagri,
svá bjóðandi í sáran dauða
sína ǫnd fyr nauðsyn mína.

53. Hrækjandi mjǫk hǫfuðin skóku
heiðingjar sem Júðar leiðir;
flestir allir flýðu Kristí
fylgðarmenn við storminn þenna.
Minnast verð ek, mák ei annat:
móðir guðs í tárum flóði;
mætti verða, at minna sótta
minnast vildi eitthvert sinni.

54. Hǫfuðdróttningin harmi þrung-
in,
hneigð ok lút, er skalf af sútum,
færðist nær, þá'r féll ór sárum
fossum blóðit niðr á krossinn.
Þrútnar brjóst, enn hjartat
hristist,
hold er klǫkt, enn andinn snǫktir,
augun tóku at drukna drjúgum
dǫpr ok móð í tára flóði.

55. Rǫdd engilsins kvennmann
kvaddi;
kvadda af engli dróttinn gladdi;
gladdist mær, þá'r frelsarann
fæddi,
fæddan sveininn reifum klæddi,
klæddan með sér lǫngum leiddi,
leiddr af móður faðminn
breiddi,
breiddr á krossinn gumna
græddi,
græddi oss, er helstríð mæddi.

56. Þó grét hon nú, sárra súta
sverði nist í bringu ok herðar:
sitt einbernit; sjálfan dróttin
sá hanganda á nǫglum stangast;
armar svíddu á brýndum
broddum,
brjóst er mætt af þessum hætti;
særðist bæði sonr ok móðir
sannheilug fyr græðing manna.

57. Fyr Máríu faðminn dýra,
fyr Máríu grát hinn sára
lát mik þinnar lausnar njóta
lifandi guð með feðr ok anda!
Æfinliga með lyptum lófum
lofræðandi á kné sín bæði
skepnan ǫll er skyld at
falla,
skapari minn! fyr ásjó
þinni!

58. Syni Máríu svartir færa
seggir blandit gall með dreggjum,
fulla smán ok flestar pínur
fundu þeir, enn heimrinn stundi.
Fǫlnar skinn ok fellr at enni,
fættust orð, enn þurru mættir;
andinn leið af Jesú píndum,
yfirvaldanda himins ok landa.

59. Ek segi rétt, at engi mætti
ógrátandi vǫrrum láta,
Jesú minn! ef letrit læsi,
linhjartaðr, af píslum þínum;
þvít náttúran æpti af ótta
ǫll skjálfandi, enn himnar sjálfir
týndu ljósi, er berr vart bundinn;
bifaðist hauðr í þínum dauða.

60. En í andláti Jesú sæta
oss var flutt, at gægzt á krossinn
fjandinn hafi ok frétt at syndum
færaglǫggr, ef nǫkkur væri.
Hlægir mik, at hér mun teygjast
hans forvitni honum til vansa:
eigi mun nú ormr hinn bjúgi
agnsvelgjandi á króki fagna.

61. Ǫll helvítis járnhlið skjálfa;
undrast myrkr, er ljós er styrkra;
hlaupa fjandr ok ætla undan,
ódæmin þeir sǫgðu at kæmi;
hræzlan flaug um heljar bygðir;
helga menn, er fjǫtrar spenna,
hlaut óvinrinn laust at láta,
lamdr ok meiddr, er valdit beiddi.

62. Hvat er tíðenda? Hraktr er fjandinn.
Hverr vann sigrinn? Skapari manna.
Hvat er tíðenda? Helgir leiðast.
Hvert? Ágætt í tígnarsæti.
Hvat er tíðenda? Hjálpast lýðir.
Hví nú? Því lét Jesús pínast.
Hvat er tíðenda? Himnar bjóðast.
Hverjum? Oss! vér prísum krossinn.

63. Signat ljós! Hinn sæti Jesú!
Sannr lífgari dauðra manna!
Dragðu mik frá djǫfla bygðum,
dróttinn blíðr! ok halt mér síðan!
Æfinliga með lyftum lófum
lofræðandi á kné sín bæði
skepnan ǫll er skyld at falla,
skapari minn! fyr ásjó þinni.

64. Sék ei þann, er út megi inna,
orðasnild þótt prófa vildi,
alla gleði, þá'r fékk at fullu
forn Adám í Jesú kvámu:
sjálfr hann einn þvít batt með bǫlvi
bǫrn sín ǫll í dauðans pínu,
enn nú leysti oss ǫll ór banni
eitt hans barn, er miskunn veitti.

65. Hví stundaðir, hinn forni fjandi!
fremdarsnauðr á Jesú dauða?
Eða þóttist þú meiri at mætti,

máttrinn hans er guđdóm váttar?
Eđa hugđir þú líkams lygđir?
Líkam tók hann meyjar ríkrar;
óverđugan hann flengđu fyrđar,
flekklausastan, vann til ekki.

66\. Þú fyrdæmdir auma Evam,
Eva mann fyr epli bannat,
mađr bannsettur allar ættir,
ættir Krist, er spjótit nisti,
Kristur þik, er fannt í fystu
fyrstan prett ok manndráp
settir:
svá ódygđarbrandrinn bjúgi
beygđist aptr í þína kjapta.

67\. Síđan reis međ sigri af dauđa
sunnudag ok gǫrđi kunnan
sinn ódauđleik mǫrgum manni
mildin sjálf, þótt deyja vildi.
Tvennar géngu tvisvar sinnum
tíu dægranna rásir hægar,
áđr enn upp yfir himna hæđir
hæfi blóđ, þat er tók af móđur.

68\. Umrennandi svá at sinni
sex daga grein ok fjórum einum
hingat sendi helgan anda,
hreinferđugastan, lærisveinum.
Vegsamligr til handar hægri
hann er guđs međ virđing
sannri,
sinn bjóđandi fađminn fríđa
fyrđa lađar til himna dyrđar.

69\. Márju son! fyr miskunn dýra,
manns náttúru ok líkam sannan,
kennstu viđ, svát mín þú minnist,
mín, dróttinn! í ríki þínu!

Æfinliga međ lyptum lófum
lofræđandi á kné sín bæđi
skepnan ǫll er skyld at
falla,
skapari minn! fyr ásjó
þinni.

70\. Enn mun koma í ǫđru sinni
allsvaldandi kóngr at gjalda
seggjum verđ fyr sínar gǫrđir
sóma-ǫrr á efsta dómi.
Svá geisar þá eldr ok eisa
jǫrđ ok fjǫll, at í heimi ǫllum
eigi finnst hér upp ór skýjum
óbrunnit ok niđr at grunnum.

71\. Upp rísǫndum allra landa
íbyggurum viđ dóminn hryggva
Jesú munu þá sárin sýnast
súthrærandi ok píslarfæri.
Orđ ok hugsan, allar gǫrđir
eru kannađar hvers sem annars,
bjóđast hvárki blót né eiđar,
byrgjast úti gjafir ok mútur.

72\. Engi finnst á þessu þingi
þrætugjarn međ klókar varnir
orđahreimr, er á dróttins dómi
dreifast menn í flokka tvenna:
ađra sveit međ hæstum heiđri
hefr hann langt yfir spheras efri,
steypir þá međ eymd ok ópi
ǫđrum niđr í fjandann miđjan.

73\. Reknir brott í dauđans druknan
drepnir menn, er þar skulu
brenna,
gnísta tennr í fýlu ok frosti;
fjandr í kringum búka standa.

Brigzli ok hróp er at gǫrvum
glæpum,
grimmlig sótt í myrkri ok ótta,
engi er ván á ǫðru enn pínu,
eilíf nauð, enn kvikr er dauðinn.

74. Þessu í gegn mun finna fagnað
fyrða hverr, 'r til sinnar dyrðar
herrann bauð með hæstri prýði
heimleiðar; þvít verða beimar
ungir, glaðir, frjálsir, fríðir,
færir, máttkir, vitrir, skærir;
hátíð gild um allar aldir
alda er þeim með virðing haldin.

75. Tárum rigni, enn tungan þagni,
taki af mál, enn þurftug sálin
berist um fast, svát búkinn
hristi;
bið ek óttandi: hjálp mér,
dróttinn!
Æfinliga með lyptum lófum
lofrædandi á kné sín bæði
skepnan ǫll er skyld at
falla,
skapari minn! fyr ásjó
þinni.

76. Tvá hræðumst ek dóm ok
dauða;
deyr sá margr, er engi bjargar;
mitt eitt veit ek líf hit ljóta
leiða mik í dróttins reiði.
Af margfaldri synda saurgan
svíður brjóst ok hefndum kvíðir,
fyrir afbrigðin flestra dygða
fátt er þat, er siðuna váttar.

77. Vindi fult hefr veslan anda
várn ofbeldit lǫngum feldan,
blár ok ljótr í ǫfundar eitri
jafnan hefr ek næsta kafnat.
Reiðigall með sárum sullum
sviðrar mér um blásin iðrin,
brygðin slítr af hjarta rótum
harðan styrk í súta myrkri.

78. Festist ok með fjúki lasta
frost ágirni mér í brjosti,
grædgi drep með glæpum
auðgum
grefst hér inn með krókum
stinnum;
hræðiliga með blindri blíðu
blekkist hold af dauðans
flekkun;
hreldr af slíku ættik aldri
ugglauss vera, þótt miskunn
huggi.

79. Fyrlátið mér, faðir hinn sæti!
fyrlátið mér! Ek vil gráta
orð ok hugsan, allar gǫrðir,
auðmjúkligast ok firrast dauða.
Því lýt ek nú þér at fótum,
þrǫngdr ok kvaldr af mæðing
taldri;
klǫkkr ok hræddr ek þurfa
þykkjumst
þína vægð í nauðum mínum.

80. Svá fýsumst, enn sæti Jesú!
synda líkn, at þeirra myndir
lítast mér, sem liggi þrútit
linna eitr um hjartat innan.
Send hingat mér sjaufalds anda

sanna gipt, er leysi ór banni
mína ǫnd, svát mættak þjóna,
Márju blómi! fyr yđvarn sóma!

81. Laust aldrigi þú lát mik, Kriste!
lasta vinds í bylja kasti!
Typta mitt ok tem sem optast
tendrat brjóst međ líknar vendi,
svát grátandi fúss at fótum,
fađir skínandi! krjúpak þínum
hvert þat sinn, er ek kulda kenni
kostalausu í glæpa frosti!

82. Beiđik nú fyr Márju móđur
mjúka bæn ok fagran tænađ,
á treystandi, Jesú Kriste!
yđra vægđ, er týndum nægđist:
pín mik, áđr enn detti á dauđ-
inn,
dróttinn minn! í kvǫlum ok
sóttum,
at því miđur sék þá síđan
slitinn af fjandans króki bitrum!

83. Lífit sjálft! at luktri ævi
leys mitt bann fyr iđran sanna!
Oleu smurđur veittu at ek verđa
viđrkennandi mjúkleik þenna!
Hreinast gef þú hjarta mínu
hold ok blóđ, þat er tókt af
móđur,
lystiligu at leiđar nesti,
leysir er ǫnd af holdsins bǫndum!

84. Hræđumst ek, at sárt muni
svíđa
samvizkunnar bygđ af grunnum,
sundruđ ǫll, þá'r syndir kalla
sína eign á hjarta mínu.
Dǫkkvir munu þá fjandans
flokkar
færast at međ ópi ok kæru,
búnir mik at brenna ok skeina,
bíta, kremja, rífa ok slíta.

85. Muntu þetta, enn dýri dróttinn!
djǫfla sveitum nǫkkut veita,
mína ǫnd at meiđa ok skeina,
Márju barn! ok hjálpar varna?
Heitu ok rauđu hjartans blóđi
hana leystir, ok því mák treysta,
Jesú! þinni ást, er mǫnnum
ǫllum bauđ til lífs frá dauđa.

86. Heyrđu mik nú, himins ok
jarđar
háleit bygđin allra dygđa!
megindróttningin manna ok
engla!
móđir guđs ok lækning þjóđa!
Þá'r mæđumst í nógum nauđum,
nálæg vertu minni sálu!
Vef þú ágætu verndar skauti,
ván mín sǫnn! til hjálpar
mǫnnum!

87. Márja! kreistu mjólk ór
brjóstum,
mín dróttning! fyr barni þínu!
dreyrug feđrnum sýn þú sárin,
son Máríu, er naglar skáru!
Ek vænumst, at ykkrum þjóni
engi kvǫl megi dróttna lengi,
miskunnar þá'r mjúkust renna
merkin slík um himnaríki.

88. Frammi stattu, er fæddir
dróttin,
fyr skínanda barni þínu!
Miskunn, bið þú, at mjúka finni
maðrinn hverr, enn glæpir
þverri!
Ber þá enn fram með blíðum
vǫrrum
bæna mál fyr kristnum sálum!
Márja, Jesú móðir dýrust!
mundu, at eigi skiljumst undan!

89. Þú ert hreinlífis dygðar dúfa,
dóttir guðs ok lækning sótta,
giptu vegr ok geisli lopta,
gimsteinn brúða ok dróttning
himna,
guðs herbergi ok gleyming
sorga,
gleðinnar past ok eyðing lasta,
líknar æðr ok lífgan þjóða,
loflig mær! þú ert englum hærri.

90. Þú ert elskandi ein af sprundum,
ágætust fyr lítillæti,
umbætandi bragna syndir,
blessuð mær! þú ert dróttni
kærust.
Þú ert hitnandi heilags anda
hǫll ok prýdd með dáðum
ǫllum,
ei kennandi kvitt af syndum,
krapta þrǫng né lǫstinn ǫngvan.

91. Márja! ertu móðir skærust;
Márja! lifðu sæmd í hárri!
Márja! ertu af miskunn kærust;
Márja! léttu syndafári!
Márja! lýtin mǫrg þvít vóru,
Márja! litta klǫkk á tárin!
Márja! græð þú mein hin stóru!
Márja! ber þú smyrsl í sárin!

92. Tungusætr ef einn hverr ýta
orðum hyggst í kvæði at skorða
mjúkan dikt at makligleikum,
mín dróttning! af heiðri þínum:
því 'r líkast, sem rasi ok reiki
ráðlauss seggr at ýmsum
veggjum,
fældr ok byrgðr, ok feti þó
hvergi
fúss í braut ór vǫlundarhúsi.

93. Hrærð af list þótt hvers manns
yrði
hold ok bein at tungum einum,
vindur, leiptur, grænar grundir,
grǫs ilmandi, dupt ok sandar,
hagl ok drif sem fjaðrir fugla,
fiskar, dýr sem holt ok mýrar,
hár ok korn sem heiðar stjǫrnur,
hreistr ok ull sem dropar ok
gneistar,

94. viðr ok grjót sem steinar ok
stræti,
strengir, himnar, lopt ok
englar,
orma sveit ok akrar hvítir,
jurtir, málmr sem laufgir
pálmar:
augabragð þótt aldri þegði,
allar þær af fyrnsku væri
máðar, fyrr enn Márju prýði
mætti skýra fullum hætti.

95. Márja! vertu mér í hjarta!
mildin sjálf! þvít gjarna vildak,
blessuð! þér, ef mættak meira,
margfaldaðan lofsǫng gjalda.
Líflig orð í ljóðagǫrðum
listuligrar móður Kristi
ǫngum tjóar at auka lengra:
'einn er dróttinn Márju hreinni.'

96. Enn krossfesti! kraptr enn hæsti!
Kristr, er fjórir broddar nistu!
þér býð ek ok þinni móður
þetta verk, er í einn stað settik.
Þá látið mik þessa njóta
þrǫngskorðaðra kvæðisorða,
er ðit sjáið mik ǫllu varða,
ǫndin mín at forðist pínu!

97. Veri kátar nú virða sveitir!
Vættik þess í kvæðis hætti,
varkunnigr at verka þenna
vandak miðr, enn þætti standa.
Varðar mest, at allra orða
undirstaðan sé réttlig fundin,
eigi glǫgg þótt Eddu regla
undan hljóti at víkja stundum.

98. Sá 'r óðinn skal vandan velja.
velr svá mǫrg í kvæði at selja
hulin fornyrðin, at trautt má telja;
tel ek þenna svá skilning dvelja.
Vel þvít hér má skýr orð skilja,
skili þjóðir minn ljósan vilja,
tal óbreytiligt. veitt at vilja;
vil ek, at drápan heiti **Lilja**.

99. Sannri ǭst af sætu brjósti
sinni rétt fyr hjálp ok minni
segi Máríu hverr, er heyrir,
hennar vess, á diktan þessa;
vera kann því at mærin minnist
mín, þá 'r ligg ek kvaldr í pínum;
berr mik þar til ván, á vǫrrum
víst ef léki: 'Dominus tecum.'

100. Almáttigr guð, allrar stéttar
yfirbjóðandinn engla ok þjóða,
ei þurfandi staða né stunda,
staði haldandi í kyrrleiks valdi,
senn verandi úti ok inni,
uppi ok niðri ok þar í miðju, —
lof sé þér um aldr ok ævi,
eining sǫnn í þrennum greinum!

---

# Skídaríma.

Einarr fóstri orti (?).

1. Mér er ekki um mansǫng greitt,
minstan tel ek þat greiða;
því mér þykkir ǫllum eitt
af því gamni leiða.

2. Yngismenn vilja ungar frúr
í aldingarðinn tæla;
feta þar ekki fræðin úr,
flest er gǫrt til væla.

3. Ef koma nǫkkur kvæðin þá
hjá kátum silkihrundum,
kalla þær sé kveðit sik á
af kærleiks elskufundum.

4. Ekki sómir amors vess
ǫllum bauga skorðum;
gengur mǫrgum gaman til þess
at gylla þær í orðum.

5. Látum heldur leika tenn
á litlum ævintýrum,
þá munu geta vór góðir menn
hjá gullhlaðs skorðum dýrum.

6. Fjǫlnis átti ek fornan bát,
sem flaut í óðar ranni;
þar var skrifuð á skemtun kát
af Skíða gǫngumanni.

7. Hann ólst upp í Hítardal,
hár á ungum aldri:
þat var hvórki skrum né skjal
skrát af menja Baldri.

8. Manna hæstur, mjór sem þvengr,
miklar hendr ok síðar,
þó var upp úr kryppu kengr
ok krummur harðla víðar.

9. Skeggit þunt ok skakkar tenn,
skotit út kinnarbeinum,
djarfmæltur við dándismenn,
drengrinn hvass í greinum.

10. Skreppu átti hann Skíði sér
ok skónál harðla prúða,
þar með enn, sem int er mér,
allan skreppuskrúða.

11. Hér með á hann stóran staf
ok stæltan brodd með hólki.
Maðrinn kunni máttar skraf
misjafnt þekkur fólki.

12. Húsgang réð um allan aldr
ævi sinnar þreyta;
enga menn fann auðar Baldr
í orðum sínum neyta.

13. Hirzlu átti halrinn sér
heldur innan feita;
úr máta stór ok mikil er,
má því Smjǫrsvín heita.

14. Er hun gǫr sem annat svín,
innan hol sem kista;
Greland dvergr úr garði sín
gaf honum þá til vista.

15. Hleypr á millum horna lands
halrinn búinn til pretta;
getit er Skíða gǫngumanns
um gǫrvalt landit þetta.

16. Nú hefr kempan kappi hǫrð
kannat vestursveitir,
aptur kominn yfir um fjǫrð
ok þar Saurbær heitir.

17. Stóð þar bær, er Staðarhóll hét,
stefnir þangat Skíði;
þenna frá ek at þekkjast lét
Þorgils bóndinn fríði.

18. Oddason til afreks vendr
ýtum stýrði fínum;
þar var Skíði af skǫtnum kendr
ok skemti af ferðum sínum.

19. Segist drengrinn sótt hafa heim
seggi vestr um fjǫrðu;
“brenni allr á baki þeim
beininn, sem mér gǫrðu.“

20. Þorgils tekr úr seggnum sult,
(sá kann drengjum hjúka)
matsvín hans var meir enn fult,
at morni vill hann strjúka.

21. Árla dags er uppi sá,
sem á fyr morgu at hugsa;
seggir fóru at slátra þá
ok slóu Stagleyjar uxa.

22. Þorgils talaði þýðr ok glaðr
þá við drenginn fína:
"Hvat vill Skíði húsgangsmaðr
hafa fyr skemtan sína?"

23. Á skæðum kvað sér skjótast
þǫrf,
því skólaust gengi lǫngum;
margur hefr sá meiri svǫrf,
er minna treystir gǫngum.

24. Skæðin vóru úr skarpri húð
skorin með hvǫssum knífi;
þau vóru ekki þynnri enn súð:
þá var gaman at lífi.

25. "Renna mundi rausn af þér
fyr rekka harðla. fróða,
ef þú gæfir ǫnnur mér
af uxanum þínum góða."

26. "Sker þú sjálfur, Skíði minn!
skæðin svó þér líki!"
"Ofrligt er um ǫrleik þinn,
ǫrva lundrinn ríki!"

27. Ristir ófan af mǫlunum mitt
mikla lengju ok síða;
hafði hann á því hvers manns
kvitt,
at hann mundi aldri ríða.

28. Alt var senn í einum klið,
upp vatt trúss meðal herða,
seggi biðr hann sitja í frið,
svó er hann búinn til ferða.

29. Ásólfs gǫtu ok austr um Skǫrð
ætla ek drengrinn þrammi,
þar til kempan kappi hǫrð
kemur niðr at Hvammi.

30. Sturli hét sá stýrði þar
staðnum þeim hinum fríða,
sæmd ok heiðr af seggjum bar;
sjálfboðit lét hann Skíða.

31. "Hefr þú kannat heruðin vestr?"
hátt réð Sturli at mæla,
"hverr 'r þar skatna skǫrungr
mestr?
skylt er því at hæla."

32. "Þorgils er þar bóndinn bestr,
baugum kann at gæða,
var ek hans í gærkveld gestr,
hann gaf mér tvenn pǫr skæða."

33. Sturli gaf honum stæltan kníf,
stóra skreppu ok mjúka;
sjálfan guð bað signa hans líf,
ok svó er hann búinn at strjúka.

34. Drattar hann á Svínbjúg suðr,
ok svó með Hítarvatni;
í honum gǫrdist illur kuðr,
aldri trúi ek hann batni.

35. Beiskjaldi í Belgjadal
byrðum trúi ek at safni.
þenna þegninn þýða skal
Þorleif ǫðru nafni.

36. Honum var ekki hjúkat þar,
heldur tók at nátta,

fram í stofunni frá ek hann var,
þá fólkit skyldi hátta.

37. Hann vilja ekki hǫldar sjá
hvórki at mat né drykkju;
hann Leifi kvað ei liggja á
um lítilmennis þykkju.

38. Hann skefr þá ofan af skæðum sín
ok skóna gǫrði fjóra,
(þat kom rétt í reikning mín)
hann rekr í þvengi stóra.

39. Býr um skó á belti sér,
enn bindr upp á sik aðra;
þat hafa seggir sagt fyr mér,
at slíkt eru brǫgðin þaðra.

40. Setr hann fyr sik svínit frítt
ok síðan bregður kreppu;
fiskastykkit fagrt ok hvítt
frá ek hann hefði í skreppu.

41. Seggrinn tæmdi svínit hálft
ok sjau grunnunga barða,
viðbit hlýtr at synja sjálft,
setr nú at honum kvarða.

42. Kastar sér í krókpall niðr
kænn til húsgangs ferða;
svínit bindr hann síðu viðr
enn setr upp trúss meðal herða.

43. Drengrinnn frá ek í lopt upp lá,
lítit varð af sǫngum;
fátækt fólkit hvíldi hjá
ok hræddist strákinn lǫngum.

44. Ekki frá ek hann signdi sik
(seint tók gleðin at rakna)
ok mun brátt, þat uggir mik,
af illum draumi vakna.

45. Síðan fór at sofna brátt,
segginn engi geymdi;
ferlig undrin fram á nátt
frá ek hann Skíða dreymdi.

46. Inn kom maðr í stofuna stórr
með stæltan hamar í hendi:
þat var enn illi Ása-Þórr,
er Óðinn kóngur sendi.“

47. Orðum hagaði þanninn Þórr
þegar hann finnur Skíða:
“Óðinn kóngur, yfirmann vórr,
yðr bað til sín ríða.“

48. “Frétt hefr hann, at fremdin þín
ferr um heiminn víða;
hann vill alla hafa til sín,
sem heimsins lystir fríða.“

49. “Lánuð er þér list ok vit,
lukkan hefr þik fangat:
því hefr sjóli sent þér rit
at sækja austur þangat.“

50. “Kom þar til með kóngum tveim
í kveld, þeir skyldu hátta;
Óðinn gefr þér auð ok seim,
ef þú gǫrir þá sátta.“

51. Réttast gǫrði raumrinn stirðr
ok réð þá fyrst at hrækja:
“Ei skal milding minna virðr,
mun ek á fund hans sækja.“

52. Skíði frá ek at skauzt á fætr
ok skundar út með Þóri;
ekki frá ek at lítit lætr
laufa viðrinn stóri.

53. Arka þeir á jǫkla austr
Ása-Þórr ok Skíði,

leiðsǫgumaðrinn lukku traustr
lastar ei þó bíði.

54. Austr af Horni ok út á haf
álpuðu þeir frá landi,
Nóreg frá ek þeir næði af
nærri Þrándheims sandi.

55. Þó bylgjur rísi á brǫttum sjó,
bragna gǫrir þat káta;
aldri tók þeim upp yfir skó,
ok ei frá ek þá váta.

56. Fundu þeir í fjǫrunni mann,
frá ek hann Ǫlmóð heita,
útisetuna eftir hann
ok ætlar spádóms leita.

57. Ǫlmóðr heilsar þegar á Þór:
"Þú munt kunna at skýra:
hverr 'r sá maðr, er með þér fór?
eðr mun hann lukku stýra?"

58. "Skíða Norðmann skulum vér hann
at skírarnafni kalla;
hefr í brjósti hreystimann
heims náttúruna alla."

59. "Mér lízt ekki meiri kraptr
mens yfir þessum lundi;
hitt mik uggir, hann komi ei aptr
heill af ykkrum fundi."

60. "Spáðu mér engra, herjans hǫttr!
hrakferða!" kvað Skíði,
"ellegar skal ek, hinn digri drǫttr!
dubba þik, svó svíði."

61. "Hvórki er þat hól né skrum,
hafi þik Æsir fangat;
þér mun kostr at káklast um,
komist þú austur þangat."

62. Fljótliga leiddist Skíða skraf,
skapillr trúi ek hann þykki,
laust til Ǫlmóðs lǫngum staf,
litt kom við eðr ekki.

63. Skíði datt, þá skyldi hann
skjótt á þaranum ganga;
hólkinn misti húsgangsmann
af harkinu því hinu langa.

64. Virðum gengur varla í hag
víst, ef fleiru týna;
Ǫlmóðr hafði annan dag
járnit þetta at sýna.

65. Austr af Nóreg ýtar tveir
áttu fyrst at ganga,
drukklanga stund dratta þeir
fyr Danmǫrk endilanga.

66. Svó var brautin breið fyr þeim,
sem borgarstræti væri;
ýtar kómu í Asiaheim
Óðins hǫllu nærri.

67. Þá voru skórnir Skíða í sundr,
skipti hann um þá síðan,
enn hina fornu laufa lundr
lagði í klassekk víðan.

68. Borgarturnar glóa sem gull,
glymr í hverju stræti,
heimsins er þar hegðan full
ok hæversk ǫnnur læti.

69. "Hverr á þessi húsin stór?"
hátt réð Skíði mæla.
"Þetta er hun Valhǫll vór,
sem víss er í auðr ok sæla."

70. Skíði spurði at þessu Þór:
"Þú munt kunna at skýra,
hvar kempur sitja ok kóngur
vórr
ok kappasveitin dýra."

71. "Óðinn sitr þar inst í hǫll
ok Æsir tólf á stóli;
glóar hun ǫll af greiparmjǫll
ok grettis rauðu bóli."

72. "Horfðu beint á Hilditǫnn
ok Hálfdan kóng enn milda;
þér mun virðast saga mín sǫnn,
slíkt tel ek rekka gilda."

73. "Ívarr sitr þar inst í hǫll
ok Álfur kóngr hinn sterki,
Hrólfur kraki ok hirð hans ǫll,
hraðr at snildar verki."

74. "Haka lita ok Hagbarð má
hjá honum Starkað gamla;
Arngríms synir þar utar ífrá
ekki lítit bramla."

75. "Blót-Haraldur býr þar næst
bęint ok Þráinn í haugi;
við þá líkar fyrðum fæst,
flagðs er litr á draugi."

76. "Vǫlsungur með vísis þjóð
ok Viðólfr mittumstangi,
Eddgeirr risi ok Aventróð,
alt er á reiðigangi."

77. "Hér er Geirmundr heljarskinn
ok hjá honum kappinn Víkarr,
Sǫrli hinn sterki sezt þar inn;
slíkt eru kempur ríkar."

78. "Ásmundr sitr þar yzt við gátt,
er sá mesti kappi;
garprinn sá, sem Gnoð hefr átt,
gǫrir sér flest at happi."

79. "Enn Víðfaðmi Ívarr sitr
instr á pallinn langa;
hundrað kónga, herrann vitr!
hvern dag með honum ganga."

80. "Sigurðr hringur sitr þar hjá
ok sonr hans kóngrinn Ragnarr,
Áli hinn frækni utar ífrá;
eru þat rǫskvir bragnar."

81. "Ragnars synir reiknast þá
rétt hjá Andra jalli,
Ísungs synir utar ífrá
ekki smáir á palli."

82. Regin ok Fofni rekkrinn sá
rétt fyr norðri miðju, —
átján dvergar utar ífrá,
allir hagir í smiðju.

83. "Hér næst sér þú hǫlda tólf
heldr í vexti gilda;
garprinn! þekktu Gǫngu-Hrólf
ok Gautreks arfa hins milda!"

84. "Þóri járnskjǫld þekkja má
þar með Hǫgna ok Gunnar, —
Ubbi hinn Fríski utar ífrá;
ei mun betra sunnar."

85. "Yzt við gátt er Sigurðr sveinn
settr af gǫrpum snjǫllum;
fyrrum vann hann Fofni einn,
frægstr af kóngum ǫllum."

86. "Heldr hann ǫllum hræddum
hér,
hirðir orma setra;
Óðinn setr hann ei hjá sér,
autt rúm þykkir betra."

87. "Þar er á stóli Freyja ok Frigg,
ok fara með hvíta glófa;
enn er hin þriðja þorna vigg,
þat er hun Hildr hin mjóva."

88. "Heðinn vill gjarna Hildi fá,
enn Hǫgni stendr á móti;
fyr þat magnast málma þrá,
múgrinn kastar grjóti."

89. "Hér felst undir auðnan þín,
ef þú gǫrir þá sátta;
ellegar verðr þat ýta pín
innan þriggja nátta."

90. Því næst gékk í Háva hǫll
halrinn kampasíði;
hirðin tók at hlæja ǫll:
"Hvat mun vilja hann Skíði?"

91. Skíði heilsar Fjǫlni fyst,
ok féll þat ekki úr minni;
hann sá alla heimsins lyst
í húsi þessu inni.

92. Herra Óðinn hreyfði sér:
"Heill ok sæll, minn Skíði!
Sjálfboðinn skaltu í sess hjá mér,
seima lundrinn fríði!"

93. "Hér er sá maðr mik hefr lyst
marga stund at finna.
Þú skalt segja mér fréttir fyst
ok farlengd þína inna."

94. "Fréttalaust er í ferðum mín,
fátt er kyrru betra;
nálgast hef ek á náðir þín,
nú er ek sextigi vetra."

95. Óðinn spurði aptur nú,
er þat minni vandi:
"Eru margir meiri enn þú
menn á Ísalandi?"

96. "Á Ísalandi eru margir menn
misjafnt nǫkkut ríkir:
þó eru ekki allir enn
oss at mentum líkir."

97. "Þorgils er þar bóndinn bestr
á bygðum vestursveita;
sá kemr engi gǫngugestr,
at greiða vili neita."

98. "Ei er ek vanur," aulinn kvað,
"í orðum menn at gylla;
þó vil ek sýna þér svínit það,
er seggrinn réð at fylla."

99. "Annat er þar ágætt líf,
ætla ek hann heiti Stulli,
mér gaf þenna mæta kníf
maðrinn sæmdarfulli."

100. "Fyr þá neyð, þú fékkt af mér,
at fórtu úr landi þínu,
kǫrgrip skaltu kjósa þér,
karl! úr ríki mínu."

101. "Herra! gef mér hólk á staf!
hann vil ek gjarna þiggja;
trúa mín veit, ek týndi honum af;
tel ek við Nóreg liggjá."

102. Rǫgnir kallar Regin til sín:
"Rammliga skaltu smíða
stinnan hólk úr stáli mín
á staf míns herra Skíða."

103. Hann kvaðst mundu hraðr at því
ok hefr sik út í smiðju,
hálfan fjórðung hafði í,
hæst var rǫnd í miðju.

104. "Góđi herra! gef mér smjǫr
greitt í hirzlu mína!"
Bænin sú féll beint í kǫr,
biđr hann Freyju sína.

105. "Vistafátt mun verđa þér
víst, ef játar flestu;
sá kostnađrinn sezt at mér,
smjǫrlaus er ek at mestu."

106. "Lafđi mín skal láta í.
enn Loki eptir hlaupa."
"Mér sýnist engi sæmd at því,
ef smjǫr þarf út at kaupa."

107. Fárbauti réđ fylla svín
ok færa þat til hallar.
"Farđu ok geym þat, Freyja mín!
ok fá honum, þegar hann kallar!"

108. Þar kom innar áfengt ǫl,
Óđinn drakk til Skíđa:
"Þú skalt hafa hjá mér dvǫl
ok hvergi í kveldi ríđa."

109. Halrinn þakkar herra vín:
"Hafi þér guđslaun, Óđinn!"
Enn hann greip fyr eyrun sín,
sem at honum færi vóđinn.

110. "Hann skaltu ekki í húsum mín
hirđa þrátt at nefna;
ellegar tapast auđnan þín,
sem áđur hef ek þér gefna."

111. "Kvónfang skaltu kjósa þér,
kann ek fleira at greina,
fljóđin læt ek fǫl hjá mér
nema Freyju mína eina."

112. "Þýđa kýs ek þorna brú,
þat er hun Hildr hin mjóva;
mér lízt engi ǫnnur sú,
jafn vel kunni hófa."

113. "Hǫgni ræđr hverr hana á,
því hun er hans einka dóttir;
ei mun Heđni hugnast þá,
ef hér eru menn til sóttir."

114. Skíđi veik at Hǫgna hér
ok hóf svó ræđu sína:
"Hvat skal ek leggja í lófann þér,
þú leifir mér mey svó fína?"

115. Hǫgni segir, at hilmir má
Hildi sjálfur gipta:
"Hvergi kýs ek hærra á,
því hér er viđ dreng at skipta."

116. "Alt í heimi ynni ek til,
at þit Hǫgni sættust."
"Þeygi gengur þetta í vil,
þó vit Hildur ættumst."

117. "Mágur þinn ek verđa vil,"
veik svó Skíđi at Hǫgna;
"veriđ kátir ok vikiđ til
víst viđ kónginn rǫgna!"

118. Hǫgni segir, at mágr hans má
mikit um þetta ráđa.
"Séu þit kvittir ok sættizt þá!
signi guđ ykkr báđa!"

119. "Illa er talat," kvađ Ása-Þórr,
"afreksmađrinn fríđi!
fyr þat tapast vináttan vór;
vendu þik af því, Skíđi!"

120. Óđinn spurđi unga frú,
orđ þarf sízt at teiga:
"Er þér viljugt, vella brú!
vaskan dreng at eiga?"

121. “Heđni hef ek heitit því,
hans ek skyldi bíđa;
en ef hann fađir minn fæst þar í,
forsmái ek ekki hann Skíđa.“

122. “Hilditǫnn skal hafa fyr vátt
ok Hálfdan kóng hinn snjalla;
vér skulum drekka brúđkaup brátt
viđ bragna þessa alla.“

123. Skíđi rétti skitna hǫnd,
skyldi hann fastna Hildi.
Óđinn gaf honum Asialǫnd
ok alt, þat hann kjósa vildi.

124. Kappinn þar međ kóngsnafn hlaut
kænn ok ǫrr í stríđi;
stungu sumir at stála gaut:
“strákligr lízt mér Skíđi.“

125. Skíđi gǫrđi skyndikross
skjótt međ sinni loppu,
sú hefr fregnin flogit at oss,
fékk hann hǫgg á snoppu.

126. Heimdallr gaf honum hǫggit það
horns međ stúti sínum.
“Hví búi þér,“ hann Hǫgni kvađ,
“svó hart at mági mínum?“

127. “Hann hefr fært þau fyrn at oss,
fleina lundrinn stælti!
gǫrđi hann fyr sér gamlan kross
ok gǫrvǫll orđin mælti.“

128. Skíđi gǫrđi at skylmast þá
skjótt á litlum tíma,
Heimdall sló svó hǫfuđit á,
hann lá þegar í svíma.

129. Hilditǫnn réđ hlaupa upp þá
ok hristi á sér bjálfann:
“Hverr veit, nema hrottinn sá
hǫggvi kónginn sjálfan.“

130. Hjó til Skíđa hǫggin þrjú,
hér var yss á fólki,
skrǫkva ek ekki, at skræfan sú
lét skella í stæltum hólki.

131. Hljóp upp Geirmundr heljarskinn
ok hefr upp øxi breiđa:
“Lemdu hann ekki landa minn!
lítinn tel ek þat greiđa.“

132. Remmigýgi rekr hann þá
rétt at Haraldi miđjum;
grimmliga lætr garprinn sá,
sem geysist leon í viđjum.

133. Mikit var um þá Haraldr hné,
heita mátti ynki;
rétt sem stykki af stofni tré,
stóra heyrđi dynki.

134. Ubbi hinn Fríski atgeir rak
ótt at Heljarskinni;
ǫfugr féll hann aptr á bak,
ei varđ dynkrinn minni.

135. Hálfur kóngur hljóp upp þá
ok hreyfđi brandi sínum:
“Þann skal líftjón leggja á,
sem lemr á frænda mínum.“

136. Ubbi fékk af Álfi slag
utan á kinnar vánga;
þat má kalla keppa sag,
er kratins synir danga.

137. Óvit beiđ þá Ubbi á sér;
Ívarr réđ svó mæla:
“Mađr mun fást í móti þér;
minst er oss um þræla.“

138. Starkaðr gamli stǫkk á fætr,
sterkliga tók at emja:
"Ekki hirði ek, hvat Ívarr lætr,
ei skal hann Skíða lemja."

139. Ívarr fékk í augat slag
af Starkaði gamla;
ógurligt var eggja sag,
engi mátti hamla.

140. Hálfi kóngi var haldit þá,
svó hann mátti ekki stríða;
alla lét hann eitthvat fá,
sem ýfa vildu Skíða.

141. Hrókr hinn svarti ok Útsteinn
jarl
at Ubba sóttu báðir;
skýzt í leikinn Skeljakarl,
skǫtnum gefr ei náðir.

142. Ubbi feldi átján menn,
afbragðskempur stórar,
Skíða sló á skoltinn enn,
svó skruppu úr tennur fjórar.

143. Áli hinn frækni á þat spjót,
sem ýta kann at dubba,
rennur fram at randa brjót
ok rekr í gegnum Ubba.

144. Ubbi féll þá út um dyrr
með átján hundruð sára;
lét hann ekki lífit fyrr,
enn lungun féllu um nára.

145. Sverði brá þá seima viðr,
sá var nefndur Agnarr;
hann klauf Ála í herðar niðr,
hann sezt niðr ok þagnar.

146. Eddgeirr risi til Agnars hjó,
ofan kom mitt í skalla;
seggrinn engu svaraði ok hló,
síðan gǫrði at falla.

147. Arngríms synir í ǫrva. seim
ætla þegar at stríða,
enn Vǫlsungar vǫrðu þeim
ok veita þóttust Skíða.

148. Víkarr kóngur varðist þá
vakrt á hallar gólfi;
Sǫrli hinn sterki sverði brá
ok sótti at Gǫngu-Hrólfi.

149. Mittumstangi manaði Hrólf,
mættust þeir ok Bjarki,
at honum sóttu ýtar tólf,
ei var lítill harki.

150. Varð þat loks at Víðólfr féll,
veittist sigrinn Hrólfi;
hundrað rasta heyrði smell,
þá halrinn datt at gólfi.

151. At Skíða sótti mengit mest,
margur varð at falla,
heyrði þangat hávan brest,
í hólkinum lét hann gjalla.

152. Fyrðum þótti ferlig undr
fljúga um heiminn þaðra;
hverr klauf annan hǫlda í sundr,
hverir drepa þar aðra.

153. Ógurlig var odda skúr,
undur mátti kalla;
engi gǫrðist ǫðrum trúr,
ymsir réðu falla.

154. Sló til Gunnars Sigurðr hringr,
sá var arfi Gjúka,
augnabrúnin á honum springr,
ei mun góðu lúka.

155. Svó hjó hann til Sigurðar hrings,
at sverð stóð fast í tǫnnum;
hér hefr næsta komit til kings
með kǫrskum frægðarmǫnnum.

156. Sveitin gǫrðist sár ok móð,
sumir af mæði sprungu,
upp tók þar í ǫkla blóð,
øxir ok kesjur sungu.

157. Eddgeirr risi ok Aventróð
æða fram at Skíða;
Blót-Haraldur berst af móð,
búinn við Þráin at stríða.

158. Þórir járnskjǫldr þreif upp stein,
þat má undur kalla,
keyrði á Haralds kinnarbein,
svó kappinn varð at falla.

159. Þráinn er sterkur, þat er ei undr,
því hann er trǫll at mætti,
risana báða reif í sundr
ok rak þá út um gætti.

160. Berserkr einn, er Brúni hét,
barði Þráin til heljar,
enn í því hann lifit lét,
ljótliga í honum beljar.

161. Ormrinn Fofnir eitri spjó
ok æðir fram at Skíða;
hrǫkk hann utar at hurðu þó,
hvergi var fritt at bíða.

162. Skíði rak sinn fastan flein
í Fofnis trjónu ljóta;
trǫllslig var sú tǫnnin ein,
er tók úr honum at hrjóta.

163. Starkaðr gamli stóð þá upp
ok stytti næsta hinn brúna;
ormrinn rak upp bǫlvat bupp,
þá ball honum hǫggit núna.

164. Skíði lét í skreppu sín
skákmanns efnit detta;
lǫng var sú hin ljóta pín,
lifir hann enn við þetta.

165. Fofnir í sitt forna hið
fór nú heim at sinni;
Starkaðr gǫrði stála hríð,
um stund er lǫgð í minni.

166. Ása-Þórr at ýtum gengr
ok innir til við Skíða:
"Muntu ei ætla at lemja oss lengr,
fyr lǫngu er mál at ríða."

167. "Ei er vón," kvað Ása-Þórr,
"at Óðinn muni þér lúta;
heldur mun fyr hǫggin stór
þinn hrottinn verða at stúta."

168. "Ef þú vilt, ek ei þik slá
ofan í pǫnnu þína,
leggstu niðr ok lút mér þá!
Lítt skulu hǫggin dvína."

169. Mjǫlni spenti hinn máttki Þórr,
af megni sló til Skíða;
hér kom á móti hólkrinn stórr,
heyrði bresti víða.

170. Starkaðr hjó til Þóris þá,
þat kom framan í enni;
allan kviðinn ofan ífrá
ætla ek sverðit renni.

171. Berserkr einn, er Brúsi hét,
bregður kylfu sinni,
Starkað gamla stúta lét;
styrr varð ekki at minni.

172. Ragnarr kóngr ok rekkar hans
réðu at Gautrek milda;

Ketill ok Hrólfr í kappa dans
kómu með drengi gilda.

173. Heyrði til, þar hetjan fór,
hǫggr hann jǫtuninn Brúsa,
féll hann dauðr á fætur Þór;
flestir urðu at dúsa.

174. Þá varð Álfr í þessu lauss
ok þrífr upp kappann Víkar,
færði ofan í Fjǫlnis haus
svó fjandliga Óðni líkar.

175. Þat sá hun Freyja, Fjǫlnis víf,
at fast tók Óðni at svíða;
stǫkk hun upp með stæltan kníf
ok stakk í nefit á Skíða.

176. Hǫgni þreif upp Hálfdan jall,
hann var frægstur gotna,
rak hann niðr svó rammligt fall,
at rifin gǫrvǫll brotna.

177. Allir réðu Æsir þá
einni rǫddu at kalla:
"Hrekið hann Skíða, hverr sem
má!
Hann mun drepa oss alla."

178. Flestir urðu fúsir þess,
fékk hann hǫgg við vanga,
þá var mikit þausnar vess,
þrjátigi at honum ganga.

179. Hann barði í hel þá Baldr ok
Njǫrð,
bæði Loka ok Hæni,
fimmtán lét hann falla á jǫrð,
enn fleygði tólf í mæni.

180. Til orða tók þá Sigurðr sveinn,
er sá hann brynju ristna:
"Mér lízt nú, sé margr um einn
manninn þann inn kristna."

181. "Greyliga tókst þér gangan, Þórr!
þú gintir hingat Skíða;
sýndr er honum siðrinn vórr,
sá mun spyrjast víða."

182. Sigurðr tók þá sverðit Gram
ok sveiflar til með afli;
allir þeir, sem oddrinn nam,
innar hrukku at gafli.

183. Hnykti hann Skíða um hallar-
dyrr
enn hljóp þar sjálfr í milli;
lúinn ok móður lá hann þar kyrr,
litit varð af snilli.

184. Heyrði hann inn í Háva hǫll
hark ok styrjǫld bæði;
borgin var sem bifaðist ǫll
beint ok léki á þræði.

185. Skjótliga kallar Skíði inn,
þar skatnar lágu hneptir:
"Sæll ok ljúfur Sigurðr minn!
svínit lást mér eptir."

186. "Nefna mundi ek nafnit þitt,
nistill silkitreyju!
ef þú, Sigurðr! svínit mitt
sæktir inn til Freyju."

187. Gnoðar-Ásmundr gǫrði þá
gilda atsókn ok stríða;
svínit tekr hann seggjum frá,
ok sendir út til Skíða.

188. Þat kom fram í fræða sal,
frá ek, at aulinn vakni;
nú er hann heima í Hítardal,
Hildar trúi ek hann sakni.

189. Yzt við gátt at aulinn lá,
ekki er trútt at hnjósi;

þeir stǫktu vatni strákinn á
ok stumruðu yfir með ljósi.

190. Þorleifr talar við þegninn brátt:
"Þú hinn vóndi slangi!
ærst hefr þú í alla nátt
ok einart verit á gangi."

191. "Fátækt hefr hér fólkit mart
fengit sárar nauðir;
ymsa hefr þú byst ok bart,
svó bragnar fimm eru dauðir."

192. Á stafnum sáu þeir stóran hólk,
stóð hann merkur átta;
hér hefr meizlin fátækt fólk
fengit af stórum hrotta.

193. Troðnir í sundur tvennir skór,
tel ek þat ei með listum,
ǫrkumlaðr var aulinn stórr,
upp voru hinir á ristum.

194. Fjórar tennur framan úr haus
fallnar vóru á Skíða,
enn hin fimta er orðin laus,
í hana kvað sér svíða.

195. Bráðliga segir hann brǫgnum
frá,
hvat bar fyr hann í svefni;
margur setr í mikla skrá
minna yrkis efni.

196. Skatnar hugðu at Skíða brátt
ok skoðuðu hann uppi ok niðri;
hans var víða holdit blátt
enn hárit líkast fiðri.

197. Hirzla hans af hagleik gǫr
hun var tóm at kveldi,
þar var komit í þrífornt smjǫr,
þat var úr Asiaveldi.

198. Hǫldar gáfu hundum smjǫr
úr hirzlutǫtri Skíða,
þeir létu sitt hit leiða fjǫr
ok lágu dauðir víða.

199. Fundu þeir í trússi hans tǫnn
tuttugu marka þunga;
nú má heyra, sagan er sǫnn,
seima þollsins unga.

200. Þeir grófu hana með fagran flúr
af fremstu meistara tólum,
bragnar gǫrðu bagalinn úr,
sem bestr er norðr á Hólum.

201. Lengi vetrar lá hann sjúkr,
lítit batnar Skíða,
flagnaði hans hinn fúli búkr,
féllu á sárin víða.

202. Aldri trúi ek ǫrmum þrjót
mun illra meina batna,
fyrr enn lofar at leggja af blót
ok laugar nætr at vatna.

203. Ei hef ek heyrt hver ævilok
urðu Norðmanns Skíða. —
Hér skal Suðra sjávarrok
sunnudagsins bíða.

# Bjarkamál en fornu.

*Quatuor fragmenta hujus carminis etiamnunc exstant, quorum primum, str. 1—2, in* Heimskringlæ *editione Arna-Magnæana, II 347—348, ejusdemque operis editione Ungeriana (= Hkr), p. 477, ac præterea in* Fornmannasǫgur *(= Fms) V 59—60 et* Flateyjarbók *(=Flb) II 343 invenitur; fragmentum secundum, str. 3—5, habet* Snorra Edda, *ed. Arna-Magnæana (= SnE,AM) I 400—402 (literis R, W, U codd. Regius, Wormianus, Upsaliensis Eddæ recentioris insigniti sunt); fragm. tertium et quartum, str. 6—7, ex codice Laufasino in editionem Egilssonianam ejusdem operis, pagg. 233—234, recepta sunt. Omnes denique reliquias carminis in* Fornaldarsǫgur Norðrlanda *(= Fas) I 110—112 Rafnius collegit.*

*Carmen* Bjarkamál, *quod octavo fere sæculo compositum putant, ex Bjarkio fortissimo milite, qui sermonis partem sumens inductus est, nomen traxit. Strophæ 1—2 tribuendæ sunt Hjaltio, Bjarkium ceterosque milites Rolfii, regis Danorum, e somno excitanti et cohortanti, ut se contra impetum nocturnum hostium defenderent. De ipsa fabula ceteroquin conferenda est Historia Danica (lib. II) Saxonis Grammatici et liber, qui* Saga Hrólfs konungs Kraka *(Fas I) inscribitur. Str. 3—5 aut Hjaltius aut ipse poëta munificentiam regis laudat, funestum pugnæ eventum postremo commiserans. Str. 6 continet verba Bjarkii, maledictis Odinem insectantis; in ultima denique stropha mors commemoratur Rolfii regis.*

*De varietate lectionum hæc annotanda nobis visa sunt:* 1[3] víkingum *Flb;* vílmǫgum *Hkr Fms,* vilmágum *Fas* 1[4] at vinna *Hkr,* at vekja *Fas Fms,* at vaka ok vinna *Flb* 1[5] vaki ok æ vaki *Fms Hkr; in Fas* æ *omittitur* 1[6] æ *ex versu antecedente huc transtuli* 1[8] of sinna *Fas,* ok Svía *Flb* 2[2] enn *propter metrum addidi* 2[3] *verba transposui;* ættumgóðir menn *Hkr;* ættgóðir menn *Fas Flb,* ætt góðir munu *Fms* 2[5] vek ek yðr *Flb* 2[7–8] at hǫrðum Hildar leiki *libri; verba, ut metro satisfieret, transposui* 3[1] enn gǫfgasti *unus codex (H β) habet* 3[2] gladdi *U* 3[5] *nescio an* Glásis *scribendum sit* 3[6] Grána *scripsi,* Grana *libri; de hac voce vide quæ in "Germania"*

*XVI 263 a me allata sunt* 4[1] veitti *R* 5[7–8] *de conjectura mutavi;* vísi enn vígdjarfi *codd. et edd.;* varđi hann Baldr þǫgli *R*, vakti hann Baldr þeygi *WU*, vakti hann Baldr þægi *Fas*, varđi mannbaldr *conjecit Raskius*, vakđi baldr *(i. e. dominus, princeps)* þeygi *Bugge (Studier over de nord. Gudesagns Oprind. p. 65). Etsi codd. W et U meliorem scripturam plerumque habent, hoc tamen loco lectio* vakti . . . þeygi *eo est minus probanda, quod testatur Saxo Bjarkium, ad quem hæc verba spectare videntur, a Hjaltio re vera expergefactum esse.*

---

# Ragnarsdrápa.

*Bragius, qui* 'enn gamli' *appellatus est, filius Boddii, e poëtis Norvegorum nomine nobis cognitis antiquissimus fere annos 770—850 p. Chr. vixisse traditur. De vita ejus et carminibus cfr SnE,AM III 307 sqq; Rosenberg, Nordb. Aandsliv I 416.*

*Carmine* Ragnarsdrápa *clipeum, a rege Ragnare Lodbrokio per Hrafnketillum quendam sibi dono missum, in quo multa et præclara facinora heroum antiquissimorum depicta fuerunt, poëta descripsit. Reliquiæ carminis variis locis Eddæ recentioris asservatæ reperiuntur. Str. 1—2, ad initium carminis pertinentes, in SnE,AM I 426 leguntur; in str. 3—7, l. l. I 370—374, de exitio Sorlii Hamderisque agitur; str. 8—12, l. l. I 436—438, cædem Hjadningorum poëta verbis expingit. Str. quoque 13 et 14 (SnE,AM I 338, 350) huic carmini tribuendæ videntur* [1]*; in utraque nihil nisi munificentia regis celebratur. Etiam alia fragmenta poësis Bragianæ, res gestas Thoris dei canentia, in Edda recentiore dispersa (AM I 242—504, II 305—601) inveniuntur; quas reliquias etsi nonnulli ad Ragnarsdrápam referunt, potius tamen ad carmen quoddam in gloriam Thoris compositum pertinere Sigurdssonium sequentes (SnE,AM III 311) censemus. Neque enim verisimile videtur in clipeo illo facinora et deorum et heroum depicta fuisse; immo credendum est eorum tantummodo heroum res gestas effictas esse, qui cum Ragnare ejusque conjuge cognati esse credebantur (cfr SnE,AM II 210). Quam multis vero modis fabula Hjadningensis cum illa Volsungiana coaluerit, satis notum est; itaque omnes, quorum mentionem fecit poëta, nexu quodam cum Ragnare et Asloga, filia Fafnericidæ, conjuncti fuerunt.*

---

[1]) *De priore semistropha aliter judicat Thorlakssonius, suadente Gislasonio (cfr* Udsigt over de Norsk-Isl. Skjalde, *pag. 12).*

